# Sex Prédikanir

útaf

# Píningar Historiu

Drottins vors Jesú Christi,

af

Sál. Mag. Jóni Þórkélssyni Vídalín,

fyrrum Biskupi Skálholtsstiptis.



Kaupmannahöfn.
Prentadar hiá H. F. Popps ekkju.
1832.

# Fyrsta Midvikudags Prédikun í Føstu.

Og þá þeir hofdu lofsaunginn súngid, géck Jesús út, sem hann var vanur, yfir um lækinn Kedron til fjallsins Oliveti; en hans lærisveinar fylgdu honum eptir. Þá sagdi hann til þeirra: á þessari nóttu munud þér allir hneixlast á mér, þvíad skrifad er: Hyrdirinn mun eg slá, og saudir hjardarinnar munu í sundurtvístrast; en nær eg rís upp aptur, þá mun eg gánga fyrir ydur í Galileam. Pétur svaradi og sagdi til hans: þó allir hneixli sig á þér, þá skal eg þó aldrei hneixlast. Jesús sagdi til hans: sannliga segi eg þér, ad í dag ádur enn haninn galar tvisvar, muntu afneita mér þrisvar. En hann, Pétur, taladi þá enn frekar: já, þó eg ætti ad deya

med þér, þá skal eg ecki afneita þér. Slikt hid sama sǫgdu allir lærisveinarnir.

Þá kom Jesús med þeim í þad akurgérdi, sem hét Gethsemane, þar var einn grasgardur; þar géck Jesus inn og hans lærisveinar; en Júdas, sá ed sveik hann, vissi og þenna stad, þvíad Jesús safnadist opt þángad med sínum lærisveinum. Þá Jesús kom í þann stad, sagdi hann til sinna lærisveina: setjid ydur hér, ámedan eg fer burt og bidst þar fyrir; bidjid, svo ad þér fallid ecki í freistni.

Og hann tók med sér Petrum og Jakóbum og Jóhannem, þá tvo sonu Zebedei, og tók til ad hryggjast, titra af hrædslu og harmþrúnginn ad verda; og þá sagdi hann til þeirra: mín sála er hrygg allt í daudann; blífid hér, og vakid med mér!

Og hann sleit sig íburt frá þeim, og géck litln fram lengra, nær einu steinsnari, og kraup á kné, féll fram á sína ásjónu til jardar, og bad, ef þad moguligt væri, ad sú stund hjá sér lidi, og sagdi: Minn Fadir! ef moguligt er, þá víki þessi kaleikur frá mér! Abba, Fadir minn! allt er þér moguligt; tak burt þenna kaleik frá mér, þó ei hvad eg vil, heldur hvad þú villt. Og hann kom til sinna lærisveina,

og fann þá sofandi, og sagdi til Péturs: Símon! sefur þú? formáttir þú ecki eina stund vaka med mér? vakid og bidjid, svo þér fallid ecki í freistni; andinn er reidubúinn, en holdid er veikt.

Í annad sinn géck hann enn burt aptur, badst fyrir, taladi þeim sömu ordum, og sagdi: Minn Fadir! ef þad er ecki mogu-ligt, ad þessi kaleikur víki frá mér, utan eg drecki hann, þá verdi þinn vilji! Og hann snéri aptur, kom, og fann þá enn sof-andi, þvíat þeirra augu voru þrúngin af svefni, og þeir vissu ecki, hverju þeir svor-udu honum. Og hann skildi vid þá, og géck burt aptur, og bad í þridja sinn med sömu ordum, og sagdi: Fadir! ef þú villt svo, þá tak þenna kaleik frá mér, þó ecki minn, heldur verdi þinn vilji! En honum birtist engill af himni, sá ed styrkti hann. Og þá hann var staddur í daudans strídi, tók hann ákafliga ad bidja; en hans sveiti vard svo sem blódhniklar, þeir ed féllu á jördina. Og hann stód upp frá bæninni, og kom til sinna lærisveina í þridja sinn, og fann þá sofandi útaf hrygd, og sagdi til þeirra: sofid þér nú þad eptir er og hvílist? Hvad sofid þér? Þad er nóg! standid upp og bidjid, svo þér fallid ecki í freistni! Sjá-id sú stund tekur ad nálgast, og er komin,

ad Mannsins Son mun ofurseljast í syndugra hendur; standid upp og gaungum hédan; sjáid, sá ed mig svíkur, hann er í nánd!

---

Margt er líkt med skyldum, segir ordsháttur gamall. Þad lesum vér um Davíd konúng, ad þegar hann flúdi fyrir ofríki sonar síns, Absalons, þá hafi hann gengid frá Jerúsalem yfirum lækinn Kedron med huldu höfdi grátandi, og hans þénarar fylgdu á eptir honum, 2 Sam. 15; en í öndverdri píslarsögu Drottins Jesú Christí, sonar Davíds, er hann gékk yfirum hinn sama læk Kedron, til Vidsmjörsvidar-fjallsins, þá heyrum vér, ad hid saklausa Guds Lamb, sem borid hefir veraldarinnar syndir, gengur hinn sama veg, og þad höfudid, sem er þúsundsinnum bjartara enn sólin, var hulid med nockurskonar sorgar-skýi, í þeim svarta myrkranna dal vid Olíveti, þar hann, svo sem, ad affídis lagdri þeirri konúngligri tign, sem hann átti í upphafi hjá sínum Födur, andvirdti sjálfann sig, og gjordist madki, en ecki manni líkur. Davíd gékk grátandi á sínum flótta; en hvad nærri ad sorgin hafi gengid hjarta Frelsarans, þad géfur hann til vitundar í grasgardinum, segjandi: Mín sál er hrygg allt í daudann. Absalon vildi ei lída stjórnan födur síns, hvör ofmetnadur steypti hönum í þá ólucku, ad hann lét sér ei nægja, ad vera kóngsins sonur, heldur vildi brjóta sig til ríkis. Absaloni voru ógudligir Gydíngar líkir, þeir ed sögdu: Vér viljum ei láta þennann drottna yfir oss! Lúk. 19. Absaloni var Adam líkur, hvör ed fyrir skopunina var Guds sonur, en fyrir höggormsins rádleggíngu vildi verda Gudi líkur, 1 Mos. 3, og vard svo fyrir metnadar-girndina Orminum líkur; hvarfyrir hinn annar Adam, sem er Drottinn af himnum, hann gjordist einum madki, og ecki manni líkur, Ps. 22. Absaloni er ecki einasta Adam líkur, heldur og hans

nidjar, allir þeir, ed eigi vilja skipast undir Guds stjórnan, edur leidast láta af Drottins anda; þeir ed segja: Vér erum herrarnir, og viljum ei hlaupa eptir þér! og hafa svo okid í sundurbrotid, Jer. 5. Þessar landráda-sakir bar hinn eingétni Sonur Guds hér yfirum Kedron, og fyrir vorrar óhlýdnis sakir, sem kölludum Gud: vorn Fodur, en ræntum hann þó sínum heidri, þá gjördist hann Fodurnum hlýdinn allt til dauda, já, allt til krossins dauda, Phill. 2. Achitóphel, sem var rádgjafi Davíds konúngs, hann sat á svikrádum vid herra sinn; svo skédi þad og vid Drottinn vorn; hans egin Lærisveinn, hans vinur, sem át og drack med honum, hann gjördist forgaungumadur þeirra, er sviku hann. Davíd var hlýdugur Gudi, og hans þolinmædi var mikil, er hann sagdi: Ef Drottinn hefir lyst til mín, þá lætur hann mig koma aptur og sjá minn bústad; en segi hann svo vid mig: Eg hefi ecki þócknun á þér! sjá! þá er eg hér, gjöri hann vid mig, hvad honum líkar. Hvad skulum vér segja um hina óumrædiligu hlýdni Lausnarans? Þegar sorgin géck allt inn ad hans sálu, og mannligri náttúru tók til ad miklast ofbod helvítis kvala, þá andvarpadi hann í himininn med hinni mestu hógværd, segjandi: Fadir! ef þad er moguligt, þá tak frá mér þenna kaleik, þó eigi minn, heldur verdi þinn vilji. Svo er nú vor Jesús Davíd í öllu þessu nærsta líkur. En hvad miklu skélfiligri píst ad hafi Drottinn vorn kvalid, enn Davíd, þad viljum vér í tveimur smágreinum hugleida útaf Textanum, og i Drottins nafni höndla í hinni fyrri um Jesú reisubúníng og ferdalag til fjallsins Olíveti; en um hans beisku kvol og þjáníng í grasgardinum í hinni sídari.

En þú, Herra Jesú! sem allt þetta leidst oss til sáluhjálpar og miskunar, styrk oss í þessu verki med krapti þíns anda, fyrir þína forþénustu, amen!

---

Þá þeir hofdu lofsaunginn súngid, segja Gudspjallamenninnir. Ad sonnu vissi Lausn-

arinn allt það yfir hann átti að koma, Jóh. 18; ekki var honum það ókunnugt, að ályktað var í þeirri himnesku ráðstofu, að hann skyldi ofurseldur verða í syndugra hendur; og hvað herfilig pína það verða mundi þekkti hann gjörla, (því hann vissi alla hluti, sagði Pétur forðum); hvorrar skélfilig minníng að mjög svo nærri hefir gengið hans hjarta, þegar hann, fám dögum áður enn þetta skédi, innreið til Jerúsalems borgar um þenna sama veg með vegsemd mikilli og fögnuði þess fólksins, sem á eptirfylgdi og hrópaði: Hósíanna Syni Davíðs! blessaður sé sá, sem kémur í nafni Drottins; en hann andvarpaði sjálfur og sagði: Mín sála hryggist í mér, og hvað skal eg gjöra? Faðir! hjálpa mér af þessum tíma, Jóh. 12. Enn þó hann vissi allt þetta, samt gleymir hann ekki sínum himneska Föður þakkir að gjöra. Þegar hinir óguðligu Gydíngar með Júda voru að ráðslaga um næturtíma, hvernig þeir skyldu hann af dögum ráða, og hann vissi alla þeirra ráðagjörð, þá var sú hans ydja, að lofsýngja Guði og Föður. Um svaninn er það ritað, að hann syngi hvað fegurst aðkominn dauða. Jesús, vor brúðgumi er einum svan líkur: hans rödd er þúsundsinnum fegri enn svanasaungur, það er Evangelíí prédikun og sá hljómurinn, sem út er genginn um alla heimsbygðina. Og þótt að oss ætti brúðgumans raust jafnan fögur að þykja, kristnir

menn! þá mætti hún þó hvad bezt láta í eyrum vorum á deyanda degi, þar Evangelíí lærdómur og allt Guds ord tekur allann sinn krapt og megn af hans vanmætti, í hans daudastrídi, svo þad, fyrir hans bitru pínu og dauda skuld, verdur kraptur Guds til sáluhjálpar øllum þeim, sem trúa. Med þessum loffaung hefir Drottinn géfid oss eitt blessad dæmi til ad þacka Gudi bædi fyrir medlæti og mótlæti. Hversu brennheitur ofn meinar þú, kristinn madur! ad Guds heiptarreidi verid hafi hans eingétnum Syni, þar hann sveittist blódinu, og hans sála vard hrygg allt í daudann; enn ei ad sídur, ádur hann géck til þessa bads, þá syngur hann lof sínum Fødur; viljir þú nú vera hans lærisveinn, þá gjør slíkt hid sama. Hvad kom Drottni vorum til ad audvirdq svo sjálfann sig í þínu holdi? Hvad þrísti honum til ad þola kvøl og krossins dauda, þá hann mátti vel sælu hafa? Hvad annad enn hin guddómliga elska, med hverri hann þig elskadi, þá þú enn varst hans óvinur. Eldur kvalanna var ad sønnu heitur, en þó sé eg hér, ad eldur elskunnar yfirgnæfir hann: helvíti kunni aldrei ad verda svo kroptugt til ad pína þinn Brúdguma, ad hans guddómlig elska til þín (sem þó hafdir drýgt hóranir med mørgum elskhuga), ad hún ei yrdi kroptugri til ad vilja þinna vegna lída. Gud er oflugri í því góda, enn Andskotinn kann ad verda í því vonda. Elskan til syndugra manna

í Gudi er heitari í sinni kynslód, heldurenn straff syndarinnar, sem er daudinn í sinni; þad sé eg á Christó, þar hann segir: Verdi þinn, ecki minn, vilji! Ef nú ad hans elska var svo máttug í hinni bitru pínu til þín, ad hann jafnvel gjördi Gudi þackir fyrir þad, sem hann leid saklaus, kann þá ecki þín elska til hans svo mikid ad megna, ad þú þolinmódliga lídir þad þú fyrir þínar syndir lídur, og hann kallar þó ad þú lídir sinna vegna? O, hvad sælann má eg Davíd kalla, sem midt í sínum mótlætingum sagdi: Þó líf og sál vanmegnist, þá ertu samt mitt hjartans traust og hlutskipti! O! hvad farsælann Job, er taladi þessum ordum: Þó ad Drottinn deydi mig, vil eg þó samt vona á hann. O! hvad sæla Jesú Christí postula, hvorjir, er þeir húdstrýktir, kvaldir og krossfestir voru, héldu þeir þad hina mestu sæmd ad meiga lída allskonar hrellíngar Christí vegna. Þegar Jesús géck út af herberginu, þá var nótt, því Jóhannes segir, Jóh. 13, ad þá Júdas géck út, hafi nótt verid, og er hann kom í Gethsemane, kom Júdas med blisum, svo sem á nóttu. Af þessu kémur mér í hug, ad bannad var ad gánga út þá somu nótt, sem páskalambid var etid, svo ecki félli menn í hendur fordjarfarans, 2 Mós. 12. En Drottinn Jesús, uppá þad hann audsýndi sig ad vera þad saklausa Guds Lamb, sem ber heimsins syndir, þad sanna páskalamb, sem slátrad er ífrá heimsins upphafi,

vort páskalamb, sem fyrir oss er fórnfært: hann gékk út þá somu nótt, er hann hafdi páskalambsins neytt, til þess ad géfa sig viljandi í hendur forrædarans. Þegar Drottinn var útaf herberginu genginn, þá segir sagan, ad hann hafi gengid yfirum lækinn Kedron; hann rann eptir þeim dal, sem liggur ámillum Jerúsalem og fjallsins Olíveti; yfir um þennann dal gékk Jesús frá Jerúsalem til hinnar fyrstu orrustu, sem hann hádi vid daudann. Sá dalur var mjeg ófrægur; hann var Gehenna nefndur; í honum voru hræ ódádamanna til ösku brend, og þau saurendi, er út voru borin af Jerúsalem, og med því nafni var helvíti á stundum teiknad; svo segir Drottinn, talandi þó eptir mannligum plagsid, hvad mikid ad gyldi jafnvel hinar minnstu syndir fyrir Guds dóm; hann segir: Hvor sem segir vid bródur sinn: þú vitfyrríngur! hann er sekur báls Gehennæ, Matth. 5. O, Herra Gud! skuli nú reikníngsskapur gjörast fyrir hvort ónytju-ord í dóminum, hvad óbærilig munu þá verda öll reidiyrdi, spottglósur, bríxli, bakmælgi, smánar-ord, rógur, lygi, illmæli og fláttskapur, ad hvorjum syndugir menn leika sér, einsog ad ödru tafli? svo audvitad er, ad vér vorum alleina þessvegna ecki einúngis tímanligs eldsloga verdugir, heldur og Guds sárheita reidi-elds, sem brennur allt til nedsta helvítis, 3 Mós. 32. Þessvegna er þá Jesús ígégnum Gehenna genginn, til ad láta

sig fjotra af ógudligum skálkum, svo vér skyldum ecki, bundnir á hondum og fótum, verda ofurseldir kvolurunum og útsuaradir í hin yztu myrkur, har vera mun óp og tannagnístran. Hvad skulum vér segja? born mín! Hvad eru syndugir menn, annad enn eitt lifandi hræ eins óbótamanns, sem hefir fyrirgjort fé og fridi vid hinn réttláta Dómara? Hvad eru þeir, ed ydrunarlaust í syndunum framfara, annad enn úthreinsun af Jerúsalem, þad er af kristiligri kyrkju, eitt ávaxtarlaust tré, sem ei dugir nema til ad upphoggvast og í eld kastast, Matth. 3, eitt heystrá, sem til alls er ónýtt, nema í ofninum ad uppbrennast? hvad annad, enn þyrnar og þistlar, hvorjir bolvaninni eru nálægir, og hvorra endalok eru afbrendir ad verda, og þad í eylífum helvítis loga? Heb. 6. En Jesús hefir í Gehenna brunnid í eldi gudligrar reidi, svo hann frelsti oss frá því eylífa Gehenna og óendanligu helvítis báli. Þar voru hræin uppbrend, sem strax sagda eg; en vér vorum fyrir vanskopun syndarinnar daudir í henni, Róm. 5, og lifandi hræum líkir ordnir, þar allt hofudid var sjúkt, allt hjartad veikt, frá hvirfli og allt til ylja var þar eckért nema sár, benjar og þroti, Esa. 1; því hefir nú Sonur Guds lifanda gégnum þenna vidurstyggiliga reit daudra beina gengid til síns daudastríds, og er vorra vegna svo sem eitt hræ útsuaradur. O, Herra Gud! hvorninn er hinn

fegursti á medal mannanna sona útleikinn herfiliga: Vér sáum hann, segir Esajas, kap. 53, og þar var eckért álit, að vér girntustum hann; hann er burkastaður medal mannanna, og maður hormúnganna orðinn; forsmáður er hann, og vér konnuðustum ei við hann framar. Þessi dalur var ogsvo Tophet kallaður, og hefir hann það nafn af orðinu Toph, hvört að trumbu merkir, þeirrar orsakar vegna, að þegar heidíngjar offruðu börnum sínum Móloch í þessum stað, og brendu þau lifandi í faðmi hans, þá uppá það, að foreldrunum ecki ofbjóða skyldi vein barnanna, þá létu þeir trumbur slá. Þetta gefur mér orsök til að hugleiða það, að vér hofum allir ofmikið mann-blót gjört Andskotanum, og allt ofdátt faðmað Djöfulinn, og elskað hans athæfi, en kastað Guðs elsku og hans boðum á bak oss aptur, svo nærri hefir legið títt og opt, að sál og líf mundu standa í bjertu báli; þarfyrir hofum vér og forþénað eylífliga að fórnfærast í þeim fúla ylfrunar-dal, hvör eð rýkur af eldi og brennisteini, og það ei til sætleiks ylms, heldur að kæla Guðs reiði, svo sem segir hjá Ezech. 16. En Jesús er þegjandi genginn ígégnum Tophet til að fórnfæra sjálfum sér Guði, svo vér skyldum ecki eylífliga emja í helvíti; honum sé prís og vegsemd að eylífu! amen!

Hvað því síðara viðvíkur, þá hofum vér fyrst að athuga, að Guðspjallamenninnir segja, að Krist-

ur hafi gengid inní einn aldingard, sem hét Gethsemane. Adam var settur af Gudi í einn aldingard í allskonar sælu, hvorja hann braut af sér med óleyfiligri nautn af því trénu, sem honum bannad var, 1 Mós. 3; þarfyrir vard hid sanna lífsins tré, hvers blod ad gagna til lækníngar heidíngjanna, þad vard plantad í aldingardinum, þegar hann lá flatur á jordu og þoldi allskonar hormúng, ad hann afrekadi oss eylífa sælu og einn arf á himnum, sá ed ecki má skemmast, og ecki saurgast, og ecki rotna. J 2 Mós. 24 lesum vér, ad þegar Móses géck uppá fjallid fyrir Gud, þá lét hann þá 70 Öldúngana eptir vid fjalls ræturnar, en tók med sér þá þrjá, Aaron, Nadab og Abíhú, en géck svo sídarst allra aleinn inn fyrir Drottinn í eldinn. Ei er Jesús í þessu Mósi ólíkur (og er þad hér medal annarra rætt, sem hann hafdi ádur fyrirsagt, ad spámann mundi Gud uppvekja þeim af brædrum þeirra, líkann sér) þegar hann inngéck í síns himneska Födurs brennandi reidi-eld í grasgardinum, til ad forlíka fyrir þær syndirnar, sem móti Mósis logmáli gjördar voru og gjörast mundu, þá tekur hann med sér Petrum, Jacóbum og Jóhannem; en sídarst allra gengur hann aleina í hid bitra daudans stríd, sem þad aleina kunni útstanda. Hann aleina lagdi sinn hrygg undir Guds eldligar reidisvipur, sem aleina hafdi þær ecki forþénad; hann aleina drack hinn fleytifulla Guds reidikaleik, í hvor-

jum honum alleina velþóknast, Matth. 3; hann géck alleina affídis í aldingardinum, sem alleina hefir vínpressuna trodid, og þar var enginn af fólkinu medur honum, Esa. 63; en hvílíka vínpressu? kristnir menn! Vér viljum strax sjá hversu mikid þad hefir kostad hinn Frumgétna ad lita sinn motkul í vínberja blódi, 1 Mós. 49. Hann tók til ad hryggjast og skjálfa og harmþrúnginn ad verda. Vidlíkt útmála Gudspjallamennirnir þessa skélfiligu daudans ángist, svo sem þá nockur tekur hastarliga banasótt, og þar er enginn lífsvon framar, hverjir med sterku ofbodi plaga ad slítast í sundur lim frá lim allt til daudans; hvad ecki er ad undra á þeim, sem ad syndarinnar vegna eru sóttum og sjúkdómum undirvorpnir; en ad hann, sem er án synda gétinn og fæddur, hann, sem er Gud alleina sæll, hann, í hverjum ad bjó öll fylling Guddómsins líkamligá, ad hann skyldi útaf hinni bitru daudans ángist titra og skjálfa sökum uppálagdra synda, fyrir hverjar daudinn er innkominn í heiminn, þad er undarligt framyfir alla hluti. Davíd segir, ad þegar Israel géck útaf Egyptó, þá hafi fjöllin dansad fyrir Gudi, svo sem saudahjörd, og hálsarnir stockid upp, svo sem hin úngu lombin; en hér megum vér sjá, ad hann íklæddur voru holdi, sem þessi stórmerki gjördi, hann sjálfur tekur til ad skjálfa og harmþrúnginn ad verda. Esajas segir, ad hann sé svo sterkur,

ad hann vegi hálsana og fjöllin á vigt, og inn-ilyki sjáfarhafid í sínum hnefa; en hér er hann þó svo vanburda ordinn, útaf megni kvalanna, ad hann fellur fram á ásjónu sína. Þad lesum ver vída hjá Gudspjallamonnunum, ad þá hann beiddist fyrir, hafi hann augu sín til himins hafid; en hér hefir hann ecki mátt edur megn til upprettur ad standa. Hér liggur þad sanna forlíkunar-offur á einu jard-altari, sem Móses umgétur, 2 Mós. 20. Englanna Drottinn liggur flatur á jordu, og beygir sig saman af hormúng, eins og einn madkur, Ps. 22; og hann, sem talar eitt ord, og þá skédur hvad hann segir, hann fær ecki med morgum og heitum bænum lausn frá hinum súra kaleik; og er hér-af audséd, hvad syndin mundi hafa ordid óbær-ilig ollu holdi, þar hann, sem ber alla hluti med ordi síns kraptar, hann verdur svo vanburda undir henni fyrir uppálagda syndanna byrdi. Mín sála er hrygg allt í daudann, segir Lausnarinn; í lofkvædinu segir hann, ad elskan sé sér svo sterk sem daudinn. Þetta ord: allt til daudans, merkir svo stóra ángist, ad hún sé reidubúin ad taka hans líf af honum. Sama ord brúkar Pá-lus um Epaphródítum, ad hann hafi verid sjúkur allt til daudans, Phill. 2, þad er: daud-sjúkur; og um Ezechíam segir Esajas hid sama, Esa. 38. Jónas sagdist vera reidur allt til daud-ans, þar hann vard, sekum ángurs og óþarfrar

vandlætíngar svo reidur, ad hann vildi heldur deya, enn lifa. En Frelsarinn, sokum brennandi elsku til syndugra manna, hann vard hryggur allt til daudans, því hann var reidubúinn ad gefa sitt líf út fyrir sína saudi.

Mín sál er hrygg, segir Lausnarinn; hvaraf vér sjáum hans sannann manndóm, ad hann hefir ei sídur fundid til sálar og líkamans hormúngar, heldurenn adrir menn; því kallar og Páluś hann freistadann á allann hátt, líka sem oss, þó án syndar, Hebr. 5; ei í þeirri meiníngu, ad í Christó hafi verid nockur ofullkomlig-leiki, þó hans sála hrygg gjordist, heldur vard hans endurlausnar embætti þarfyrir fullkomnara, því fyrir sína hrygd hefir hann útvegad oss eylífa gledi. Vér hryggjumst gjarnan naudugir: hann oldúngis viljugur; vér fyrir vorar eigin syndir: hann fyrir annarligar; vor hrygd forblindar skynsemi vora: Kristur hrygdist eptir rádi sinnar alvitsku; vor hrygd er ætíd blondud med Synd: Kristur var allur án syndar; vorar tilhneigíngar standa í gégn Gudi: Christí tilhneigíngar gjordust Fodurnum hlýdugar inntil daudans, og svo sem enginn tekur hans sálu frá honum, heldur leggur hann hana sjálfur frá sér, svo hryggir og enginn hans sálu án hans vilja. En eptir því vér med tilhneigíngunum, sem hvad mest eru bústadur hinnar syndum spilltu

náttúru, vér hofdum med þeim allra helst Gud stygdann, þá byrjadi Christó ad lída á hans allra heilegustu tilhneigingum, þó án syndar, svo vorar yrdu hreinsadar. Minna hefdi hann veitt oss hefdi hann ei hrygdina lidid; hann er þarfyrir vor vegna hryggur ordinn, ad hann hafdi ekkért til hrygdar fyrir sjálfann sig; hann vildi ecki ámedan hafa unadsemd af fagnadi guddómsins, sem í honum bjó, ad hann kynni hryggur ad verda og sampínast vorum eymdum; hann vildi hrygd hafa í voru holdi, ad vér í honum hefdum eylífa gledi; hann géck einn hrygdar-feril allt til daudans, svo ad hann þarmed leiddi oss til eylífs fagnadar á veg lífsins; honum byrjadi hrygdina á sig ad taka, ad hann ecki færi á mis vid, heldur sigradi hrygdina. Þú ert hryggur ordinn, ó, Herra! fyrir vorar, eigi fyrir þínar syndir, eigi sakir þíns dauda, heldur vors veikleika; þér sé lof, heidur og þackir ad eylífu! amen!

Framar stendur í textanum: Hans sveiti vard sem blóddropar, þeir ed féllu á jordina. O, Herra Gud! hvor hefir þvílíkt heyrt? Hvor vill nú ecki med blódugum tárum medkénna þad satt ad vera, sem Esajas fyrirspáir, kap. 52: Sannliga bar hann vora sjúkdóma, og hlód á sig voru kránkdæmi; vorra synda vegna er hann sleginn, og hegníngin hefir á honum legid, ad vér hefdum fridinn, og fyrir hans benjar erum vér heilbrygdir ordnir. Menn vita, ad þegar einn erfidar kappsamliga, þá

dynur sveiti af hans líkama; hvílík ofraun mun þá hafa kvalið sálu vors Frelsara, þar hann hrærdi sig ecki, heldur lá framfallinn á jordu, ad hann sveittist blódinu? Menn vita, ad þeir, sem eru plágadir af banvænum sóttum, þeir sveita ecki blódinu, heldur raudleitum sveita, sem þó er ecki blód, heldur hefir farva, líkann blódi. En Jesús var ad sönnu heilbrygdur fyrir utan vora sjúkdóma, sem hann bar, og þau orkumslin, er hann á sig hlód; hans sveiti var og ei sem annarra manna, því Gudspjallamenninnir segja, ad hans sveiti hafi verid svosem blódhnyklar, þeir ed féllu á jordina. O Herra Gud! þegar adrir menn lída nockra kvöl á sálunni, þá safnast blódid ad hjartanu, hvört ad er eins og slot líkamans, hvar sálin hefir sinn bústad sérdeilis, einsog þá einn landsher á ófridartímanum safnast ad kastalanum, til ad forda sér og verja sinn höfdíngja. En í Jesú dauda-strídi skédur þad öfugvísi; hér stockur blódid, í hvörju sálin er, segir Móses, þad stockur útaf líkamanum; því sökum þess, ad Guds kraptur var í hönum, svo hann gæti stadist ofbod kvalanna, þá hafa náttúrunnar kraptar mátt víkja, ædarnar sundurþanist, og samteingd líkamans glidnad, þá gudligur kraptur bardist í mannligu holdi, ecki einúngis vid daudann, heldur og vid þann, sem daudans vald hefir. Sjáid hér ydar lausnargjald, kristnir menn! hér er sú laugin,

hvorri þér erud í skírninni þvegnir, í hvorri þér eigid ad fága ydar skrúda, Opinb. 7, sídan; hér er Guds eigid blód, Post. 20, med hvorju hann hefir endurkeypt hjörd sína; hér er leónid af kyni Júda, sem hefir litad sín klædi í víni og sinn mottul í vínberja-blódi, 1 Mós. 49. Minn Herra Jesú! hvor er sá, sem kémur af Edom í raudum kirtli, hann sem er svo skrautligur í sínum búníngi, og frambrunar í makt sinni hinni miklu? Esa. 63. Pad em eg, sem tala réttvísina, og er máttugur ad hjálpa, segir Drottinn. Hvarfyrir er þitt fat svo raudt, og þín klædi svosem þess, er vínpressu tredur? Pvíad þinn víngardur, vid hvorn þú hafdir þó allt gjort, sem einn kunni ad gjora vid sinn víngard, Esa. 5, hann hefir borid þér súr vínber; þarfyrir ertu inní aldingardinn genginn einsamall vínpressuna ad troda, og hefir litad mottul þinn, ecki einasta í þínu eiginn, heldur og í Edoms barna, hinna slægu, hinna stoltu Israels fjandmanna, blódi. Jordin var bolvud fyrir Adams blód (svo kallast syndin optliga í ritníngunni), hvorju hann steypti yfir sitt og allra barna sinna hofud; en fyrir þinn blódugann sveita, Drottinn minn! þá er hún oss aptur blessud. Adams synda-straff var þad, hann skyldi í sveita síns andlitis síns brauds neyta, 1 Mós. 3; en fyrir þinn sveita er vor sveiti og vort erfidi blessad. Um einn orm er þad skrifad, ad hvorn hann bítur, sá verdi alblódugur; en

Satan, hinn gamli dreki og höggormur, hann hafdi svo bitid oss til blóds, ad vér lágum í voru blódi, og vor nabli var óumskorinn, og þar var eckért auga, sem miskunadi oss, þegar þú géckst þar framhjá, og sagdir til vor í voru blódi, þad vér skyldum lifa. Þessvegna ertu í einum eldraudum ormi fyrirmindadur, Jóh. 3, og á gálgann blódrisa uppheíngdur, ad vor skrúdi, sem af oss sjálfum til var verr útleikinn, enn nidlagsfat, ad hann yrdi fágadur í þínu blódi, þú lambid Guds! sem borid hefir veraldarinnar syndir. Látum oss nú renna nockud í skap vid sjálfa oss, Guds vinir! hverra blódskammir ad eru med Guds Sonar blódi kvittadar. Hvorsu óviidurkvæmiligt er nú þad, ad Herrann píníst, en þrællinn er allkátur! Kristur sveitist blódinu fyrir vorar syndir; en vér fyrir hinar somu, er þó hafa Gud krossfestann, vér fellum ecki eitt tár af augum vorum! Ecki einúngis hans augu grétu, heldur allur hans blessadur líkami flódi í tárum; en oss kémur ecki til hugár ad útausa beisku táraflódi sannrar ydrúnar af hjarta voru, þegar hans kvol í grasgardinum verdur oss fyrir augum afmálud. Vorar syndir voru svo sterkar, ad þær gátu pressad blódid út, af hans holdi; er þá minníng Drottins dauda ecki svo sterk hjá oss, ad hann fái einn vatnsdropa af augum vorum. Valla eru hjortu vor mýkri enn einn klettur, því Móses féck þó vatn útaf bjarginu, er hann sló sprotanum

þar á; en Guds ord, sem er bitrara enn twíeggjad sverd, þad vinnur næsta lítid á gédsmuni sumra manna. Eg grátbæni ydur þó, fyrir Guds og vorrar velferdar sakir: hugleidum þau ord, er skrifar St. Páll, ad jerdin, hvor ed inndrekkur regnid, sem yfir hana fellur, hún beri þyrna og þistla, hverjir bølvaninni eru nálægir; og þeirra endalok eru ad uppbrennast, Hebr. 6; svo eru og ydrunarlaus hjørtu, sem med heilnæmu regni Jesú blóds-sveita eru ádreifd, en skipast þó ekki þar vid: þau munu ekki lángt frá eylífri fordæmíngu, og hinum sára kvalanna eldi, sem ekki sloknar, hvers reykur uppstíga mun um aldir alda. Hugsum til þess, ad sá dagur kémur, þad vér skulum og svo þreyta vid daudann, hvor ed var Gudi ódaudligum svo hardur, ad hann strídди vid hann, og tók ákafliga ad bidja, ad daudans skál mætti frá sér takast; hvad beiskur mun hann þá verda þér, sem valla annad gjørir, enn ad vinna til daudans, nema þú hafir ádur svo búid þig í alvæpni Guds, ad hann vilji veita þér lid, sem daudann hefir uppsvelgt, hvor ad er helvítis drepsótt og daudans daudi, og þú vogir í þínu daudastrídi ad segja med Páló, fullerugur í Gudi heilsugjafara þínum: Daudi! hvar er þinn broddur? helvíti! hvar er þinn sigur? Gud er sá oss hefir sigurinn géfid, fyrir Son sinn, Jesúm Christum. Svo ad lifa, og svo ad deya unn þú oss, gódi Gud! eylífi Konúngur dýrdarinnar, fyrir þann sama, þinn eingétin Son! amen!

---

## Önnur Midvikudags Prédikun í Föstu.

Og jafnsnart sem hann var enn ad tala um þetta, sjá! einn af þeim tólf, sem Júdas hét, þá er hann hafdi nú til sín tekid flock manna, og þénara kénnimanna-höfdíngjanna og Pharíseanna, kom hann þángad og med honum flockur mikill med blisum, lömpum, sverdum, staungum og vopnum, útsendir af kénnimanna-höfdíngjum, skriftlærdum og öldúngum; og hann géck fyrir þeim. Sem Jesús vissi nú allt hvad yfir hann átti ad koma, géck hann fram, og sagdi til þeirra: ad hvorjum leitid þér? Þeir svörudu honum: ad Jesú af Nazareth. Jesús sagdi til þeirra: eg em hann. En Júdas, sá ed sveik hann, stód einninn hjá þeim. En sem Jesús sagdi til þeirra: eg em hann, hörfudu þeir bak aptur, og duttu til jardar. Hann spurdi þá enn einusinni: ad hvorjum leitid þér? En þeir sögdu: ad Jesú af Nazareth. Jesús svaradi: eg sagda ydur þad: eg em hann; þarfyrir, ef þér leitid ad mér, þá látid þessa íburt fara; svo ad uppfyldist þad ord, hvad hann

hafdi sagt: ad aungvum glatadi eg, af þeim sem þú gafst mér (Jóh. 17.)

En svikarinn hafdi gefid þeim samegin=ligt teikn, og sagt: hvorn helst eg kyssi, sá er þad, gripid hann og leidid í burtu vareygd=arliga! Og þá hann om, nálgadist hann Jesúm, ad hann kyssti hann; og jafnsnart geck haun til hans og sagdi: heill sertu, Rabbí! og kyssti hann. En Jesús sagdi til hans: vinur! hvarfyrir ertu kominn? Júda! svíkur þú Mannsins Son med kossi? Þá gengu þeir þángad, og logdu sínar hendur á Jesúm og gripu hann. En þá ed þeir, sem hjá honum voru, sáu hvad verda vildi, sogdu þeir til hans: Herra! skulum vér slá med sverdi? Og sjá ad einn af þeim, sem med Jesú voru og þar stódu: Símon Pét=ur, hafdi eitt sverd, rétti út hondina og ryckti því, og sló til presta=hofdíngjans þénara, og hjó af honum hans hid hægra eyra; og sá þénari hét Malchus. En Jesús svaradi og sagdi: leyfid þeim ad gjora enn frekar! og sagdi til Péturs: stíktu þínu sverdi í slídrid, því ad hvor ad sverdid tekur, sá mun fyrir sverdi farast; eda meinar þú, ad eg kunni ecki nú ad bidja minn Fodur, þad hann sendi mér meir enn tólf legiónir engla? Skal eg ecki drecka þann kaleik, hvorn ed minn

Fadir hefir mér géfid? en hvorninn skyldu þá ritníngarnar uppfylldar verda? því þad hlýtur svo ad ské. Og hann áhrærdi hans eyra og læknadi hann.

Á þeim tíma svaradi Jesús og sagdi til fólksins, og þeirra presta-höfdíngja og hofudsmanna musterisins og öldúnganna, sem til hans voru komnir: þér erud svo sem til annars ræníngja útgengnir med sverdum og staungum ad grípa mig; dagliga hefi eg hjá ydur verid, setid og kennt í musterinu, og þér hafid aungvar hendur á mig lagt, og ecki gripid mig, heldur er þetta ydar tími og magt myrkranna, svo ad ritníngarnar uppfylldust; en allt þetta er skéd, svo ad uppfylldust ritníngar Spámannanna. Þá forlétu hann allir lærisveinarnir og flýdu. Og þar var einn úngur mann, sá ed honum eptirfylgdi; hann var med líni klæddur yfir bert hörund, og úngmenni gripu hann; en hann snaradi línklædinu, og flýdi nakinn í búrt frá þeim.

---

Í fyrri Samúelis bókar 28 kapitula lesum vér, ad þegar Sál konúngur fór til frétta vid galdrakonuna í Endór, þá hafi hún sagt: Eg sé gudina uppstiga af jördunni; og er Sál spurdi ad, hvörnig honum háttad væri, svaradi hún, ad þad væri madur nockur aldradur í sidum stacki. Málmurinn er gud veraldar þessar-

ar; hann er af jördunni uppstiginn; þvi sidan ad mannkynid ecki vildi nægjast med þad, sem á henni vex og fóstrast, ofs til næringar af Gudi gésid, þá hafa menn grafist í ydur hennar til ad leita eptir meiri gæsu, sem þó morgum hesir ad ógæsu ordid; þadan er komid gull og silfur, af hvörju sumir menn steypa Baal, svo sem Drottinn ad ordi kémst, fyrir munn spámannsins; þad stédur þegar menn leggja meiri trúnad á þenna þétta leyr, heldurenn hinn lifanda Gud, sem bædi hann og alla veroldina skapad hefir. Ecki veit eg til þess, ad Samúel hafi kénnimadur verid, svo ad menn kunni þarfyrir ad segja, ad hann hafi birzt konu þessari í Arons skrúda; spámadur var hann og dómari í Jsrael, Post. 13; hitt er víst, ad hann hefir audþecktur verid af búningi sínum, þvi Sál kannadist strax vid, ad hann væri þad, þegar konan sagdi honum frá sýn sinni, hafi hún þó nockurn séd, sem konúngurinn sá ecki sjálfur, og þetta hafi ei alleina verid prettur hennar til ad villa hann, rádlausann mann og af Gudi forlátinn. En hvörnig sem því er varid, þá er eg viss þarum, ad ecki hefir Gud gésid Fjandanum magt yfir likama Samúelis, heldur hefir þetta verid apaspil Satans og missýningar einar; og hlýdir þar vel uppá, þad sem Páluss skrifar, 2 Kor. 11, er hann talar um falska postula, og segir, ad Satan ummindist í ljóssins engil, því sé þad ei ad undra, þótt hans þénarar breyti sér, svo sem væru þeir þjónar réttlætisins. Svo hluti brúkar Andskotinn sérilagi til þessa, sem er fé og flátskapur; hann steypir fyrst eitt god af silfri og gulli, og sídan býr hann þad i skart med Samúelis kirtli; svo kalla eg fláráda vináttu, og skyn heilagleikans; fyrir því er Guds bornum vandlarid, ad ei láti þau sig locka af þvílíku táli til ad syndga og styggja Gud. Optliga hefir Djöfullinn þenna prett í frammi haft, en þó hefir hann sýnt meistara=stycki sitt á glötunarinnar=syni, Júda, sem med öllum rétti kallast má hofdingi fals=postulanna, og þeirra forgaungumadur, því stomu eptir þad, ad Djöfullinn hafdi gjört einn afgud i hans hjarta úr þeim 30 silfurpeningum, er hann tók af kénnimanna=hofdingjunum til ad svikja sinn Herra, þá gaf hann hon=

um fagrann kirtil, það er blíðskaparorð og ljúfmæli, til að fullgjöra sitt verk, svo sem framar mun sagt verða í textans útleggíngu; af hvorjum vér viljum tvennt hugleiða: 1. Hvað vér eigum af svikarans dæmi að forðast; 2. Hvað vér eigum af Frelsarans hógværðar andsvari að læra. Bú þú sjálfur í þínu orði, Drottinn minn! og lát engann svo kyssa það í dag með sínum eyrum, sem Júdas þig kysti með sínum fláráðum munni! Bænheyr það, ó, Herra! fyrir þína forþénustu! amen!

---

Hvað hinu fyrra viðvíkur, þá hefum vér tvennt að varast af dæmi Júdæ, sem er: ágirni og fláttskapur. Hans ágirni sjáum vér af því, að hann seldi Herra sinn fyrir 30 silfur peninga; og hefir svikari þessi hvorjum Mammons-þræl heimskari verið, þar hann seldi hann, sem allt gull og silfur á og öll endimörk jarðarinnar fyrir 30 silfurpenínga: hann, er situr og bræðir og silfrið hreinsar fyrir svo lítið silfur, og hið saklausa lamb Guðs, með hvers dýrmætu blóði öll veröldin er endurkeypt fyrir svo litla fémuni. Þrjátíu silfurpeníngar voru almenniligar þrælsbætur eptir lögmálinu, 2 Mós. 21, og þó útlendíngs, og ekki hins innlenda; fyrir svo smánarligt lítilræði er Konúngur himins og jarðar seldur af einum guðlausum ódygða-þræl, og hefir hann blessaður í því hvað mest auðsýnt, að hann hafi auðvirdt sjálfann sig að þrælsmind á sig tekinni, Phill. 2, þar Frelsari allra manna er þó

ecki svo sem frjáls madur, heldur svo sem ánaud-ugur íburtu seldur. O, Herra! hvarfyrir ertu svo mínkunliga seldur? Ad vér ei yrdum kvol-urunum ofurseldir. Hvarfyrir ertu svo sem einn þræll keyptur? Svo þú keyptir oss eylift veldi á himnum uppi. Hvarfyrir ertu fyrir svoddann lítilrædi seldur? Svo ad Guds blód, sem í einni þjóns mind var lítils metid, þad yrdi þess dýr-mætara fyrir Gudi. En gæti þess kristnir menn, ad engann af þeim hendi neitt, þad er á nockurn hátt sambjóda megi edur líkjast þessu meistara-stycki Andskotans, þar vér hofum slíkann vidbjód á þessu dæmi. Hvad gjora þá allir þeir, er láta óleyfiliga aura-elsku, ágirnd og fésýkni draga sig frá þeim kærleika, sem er í Christó Jesu? hafa þeir ecki ad nockru leiti med Júda seldt sinn Her-ra? Vel talar Páls hérum, er hann segir, ad þeir ed ríkir vilja verda falli í Djofulsins snorur; en hvad er annad ad vera fastur í hans snoru, enn ad hafa seldt (þad er: yfirgéfid) Christum? Sjáum hvad nákvæmliga Andskotinn fór ad veida Júdam; ei hefir hann rádid honum í fyrstu ad selja Drottinn fyrir penínga, heldur skotid honum í brjóst or sérplægninnar, ad hann skyldi plocka nockud af því, sem Krists og hans lærisveinum legdist til uppheldis, því segir Jóhannes, kap. 12, ad hann hafi þjófur verid og borid fépýngjuna. Svo leikur Djofullinn vid þá, sem gjarnir eru á fé; hann telur þeim þessar tolur: þótt eg girnist

þetta, það er eckert stórrædi, ecki þjófnadur nockur: héraf má enginn stórann skada bída: margur hefir meira írádist, og hefir ei til ránglætis reiknad verid: eg vil ad eins sjá mig vid þeim stærri glæpunum, sem adrir fremja. En, þú heimskur madur! þú gætir ecki ad því, ad ádurenn golturinn vard svo stór, ad hann gjordist mannskædur, þá var hann úngur grís, og ádurenn einn myrdti mann til fjár, þá stal hann saudnum. Andskotinn lædist inní syndarans hjarta einsog þurfa-madur, en nær hann er innkominn, setur hann sig í bónda-sætid og rædur, slíku er hann vill, og gjorir Salómónis svipur ad Róbóams hoggormum, þartil hann drotnar í syndinni, en syndin í þess auma manns daudligum líkama. Nú þared Júdas meinti, ad Lausnarinn, sem vissi alla hluti, hann mundi sjá ígégnum fíngur vid sig og líða svo tíma óvitskunnar, þótt hann smástæli, þá gjordist hann djarfur í heimskunni, hvarfyrir hann reiddist María, er hún smurdi fætur Christí med dyrmætu salvi; þá gat hinn bolvadi ágirndar-ormur ecki þolad vid, og gægdist út med hofdinu, er hann sagdi: Hvarfyrir voru ei smyrsli þessi seld fyrir 300 penínga og géfid fátækum? Jóh. 12; eigi sagdi hann það af því, segir Jóhannes, ad hann hyrdti um fátæka, heldur sokum þess, ad hann var þjófur; og allra sídast lagdi Djofullinn hér smidshoggid á óhæfuna og syndi það, ad hann væri med ollu í

hann farinn, þar hann kom honum til að selja sinn eiginn Herra. Þanninn er nú syndin, hvor að er Andskotans dóttir: hún er eitt frjóssamt kvikindi, því nær hún fæðist, gengur hún þúngud med adra; hún hættir ei þar, sem hún byrjar, heldur gétur af sér einn vondann innblástur, innblásturinn samþycki viljans, viljinn gjorninginn; af gjorninginum framkémur uggaleysid, af uggaleysinu forherdíngin, af forherdíngunni ervæntingin, af ervæntíngunni eylíf helvítis pína, sem er verdlaun allra ógudligra um aldir alda med Djoflinum og hans árum í því dýki, sem vellur af eldi og brennisteini. Þetta vottar Jakob, í síns pistils 1 Kap., med færri ordum, segjandi: Sérhvor verdur freistadur, nær hann tilteygist af sínni eigin girnd og lockadur verdur, og sídan þad girndin hefir gétid, fædir hún syndina, en nær syndin er fullkomnud, fædir hún daudann. Þarfyrir skyldu kristnir menn sjá til, að þeir kéfji hina fyrstu neista ágirninnar, svo að Guds hús, sem er vort hjarta, brenni ei til kaldra kola. Þannig byrjar að skjóta dreka-úngann í bælinu, ádur hann verdur fleygur, og slíta hoggerminn, þad er Djofulinn, úr barmi sínum, ádurenn hann stíngur til hjartans; vel sé þeim, er svo kunna að taka Babylons smáborn ámedan þau hráblaut eru, og slá þeirra hofdi nidurvid stein, Ps. 137; því hvad gagnar þad manninum, að hann eignist allann heim þenna og lídi svo topun á sálu

sinni? segir Frelsarinn, Matth. 16. Í ödru lagi heyrum vér af historíunni, ad Júdas, þá hann hafdi til sín tekid flock manna og þjónustumenn biskupanna, Pharíseanna, oldúnganna og þeirra skriftlærdu, þá hafi hann vikid ad Jesú, kyst hann og sagt: Heill vertu, Meistari! Þetta er hin mesta óhæfa, er Djöfullinn framid hefir í syndugu holdi! Margur hefir vini og frændur af dögum rádid: Neró lét fyrirkoma módur sinni; Absalon ofsókti födur sinn; Jóab sveik sinn vin; Kaín vo bródur sinn; en ad brugga svikrædi sínum Gudi og Skapara, þad eru fádæmi Satans, þared einn syndugur ormur forrædur þann, sem er hans fadir fyrir sköpunina, hans herra fyrir verndina, hans bródir fyrir manndómstekninguna, hans heilsugjafari fyrir endurlausnina, hans meistari fyrir uppfrædinguna, hans dómari fyrir úrskurd verdlaunanna. Hann, sem mann vegur, hann er manndrápari; hann sem myrdir, hann er mord-íngi; hann ed sinn herra forrædur: drottinssviki; hann, sem frændur edur vini af lífi tekur, hann er nídíngur kalladur: en hvorju nafni skal eg hann þá nefna, sem rædst ámóti Drottni, Gudi sínum, fyrir hvors skuld vér ecki alleina skyldugir erum födur og módur ad yfirgéfa, heldur og einnig lífid ad láta, ef hann þad bydur? Nú veit eg, mínir elskuligir! ad þar er enginn af ydur, sem ecki í hjarta sínu fordæmi svikarann Júdas. En gætum þess, ad nú er Kristur ad sýniligum vistum

frá oss vikinn, og situr til kraptarins hægri handar, svo enginn mannligur kraptur og ecki sjálfur Andskotinn fær honum mein unnid; en ei ad sídur er hann oss á margann hátt nálægur. Páls segir, 2 Kor. 11, ad Kristur sé safnadarins hofud; hyggi þar ad allir þeir, ed heita vilja hans limir! Júdas kysti hefudid med fládádum kossi; sjáum til limirnir, ad vér ei þannig innbyrdis kyssumst, því hvor ed Jesú limi falskliga kyssir, hann kyssir hans andligann líkama, sem er hin kristiliga kyrkja. Guds born á fyrstu dogum kristninnar hofdu þá venju, ad nær þeir héldu sínar agapas, edur kærleiks-samkomur, þá kysti hvor annann med heilogum kossi, um hvorn Páls talar, 1 Kor. 16, hvors og Pétur minnist, er hann segir: Heilsid hvor odrum med kærleikans kossi! 1 Pét. 5; þadan er enn nú í dag sú venja medal vor, ad vér mynnumst hvor vid annann, ádurenn vér etum Guds líkama og dreckum hans blód í heilagri kvoldmáltid Drottins. Þessi sidur kristinna manna ætti ad minna oss á bródurligann kærleika innbyrdis! En Gud nádi oss syndarana, ad valla mun af því veita ástundum, þegar vér gaungum til Herrans altaris, til ad fridmælast vid Gud í helgum stad, ad sumir hafi þá vel þurkad allt fláttskapar kám af vorum hjarta síns, og er þá nærsta hætt vid, ad þeim verdi hid sama og Júdæ: ad bjóda Jesú falskann koss. Á Jerúsalems musteri var eitt port, inn

um hvort ad gengu ydrandi manneskjur med huldum vörum; hvad oss minnir þar á, ad Jesús er þær dyrnar, um hverjar vér, sem stendum raudir af óvirdíngu fyrir hádúngar vors úngdóms, einsog Ephraim, eigum ad gánga inní Jerúsalem fyrir Gud, til ad offra vorri gáfu fyrir altarinu; en það er ei meir enn skyldugt, ad vér ámedan hyljum varir vorar, med hverjum kannské margur hefir tídt bodid sínum náúnga fláràdann koss, og hvatt túngu sína einsog höggormur, og smurt varir sínar med nödru-galli, Ps. 140. Eg vil ei um þá tala, sem med heiptrœku gédi minnast vid hold og blód Drottins, og ætla þó, ad sér muni í þeim heilaga stad uppgéfin verda þau tíu þúsund punda, um hver þeir eru hinum réttláta dýrdarinnar Konúngi skyldugir, en ecki vilja þeir uppgéfa sínum samþjón þá hundrad peninga, er þeir áttu honum ad lúka. Um Jóseph, hvern hans brædur seldu í þrældóm, ei ólíkt og Júdas sinn Herra, um hann stendur skrifad, 1 Mós. 45, ad hann hafi fallid um háls þeirra og kyst þá med grátandi tárum. Gud gæfi ad allir þeir, er sig kristna nefna, væru eins lyndir og sá gudsmadur var, í því ad fyrirgéfa hver ödrum útaf hjarta sínar misgjerdir, því annars mun vor himneskur Fadir ei tilgéfa oss vorar syndir, Matth. 6. Eg vil spyrja: hvad skilur Júdam, er kysti Jésum og sagdi: Heill

vertu Rabbí! en dró þó eptir sér flock manna með sverðum og staungum til að grípa hann? hvað skilur hann, segi eg, og þá, sem staddir í heilegum stað segja: Herra! Herra! forlát mér syndir mínar! en í þeim sama munni, með hvorjum þeir Jesú líkama og blóð meðtaka, þá geymir hann ecki Jóabs, heldur Jesabels sverð, og hann er nockurskonar örvamælir, fullur af morðpílum til að skjóta að sínum náúnga, þegar honum færi gefst. Það var siðvani Gydínga, að þá þeir sáu álengdar nockurt gofugmenni, og gátu ei til hans náð, að kyssa hans hönd, eptir því sem siður var til: þá kystu þeir sínar eigin, og veittu honum lotníng þarmeð. Þetta minnir mig á, að vér stondum fjærri vorum Lausnara, svo sem hinir líkþráu í gamla testamentinu; vér erum háfir einsog þeir, svo vér gétum ecki Guð ákallað svo sem ber; vorar syndir aðskilja millum hans og vor, og vér stondum lángt frá með tollheimtumanninum, og þorum ei upp að lypta vorum augum til himins, því vér hofum styggt hann, sem í himninum býr; en ei að síður viljum vér kyssa vorar eigin hendur, það er, limi þess líkama, hvors limir vér erum, og vera ei afundnir þeim, sem oss biðja, eður þeim, sem við oss misgjöra, og undireins berja oss á brjóst með vorum eigin hondum, segjandi: Guð! vertu mér syndugum líknsamur! Þannig byrjar að leita að Jesú með einum auðmýktar og kærleiks kossi, en ei svo sem

Júdas og hans foruneyti: med lyktum og log-brondum. Gydíngar leitudu Drottins med lykt-um og blísum, ad eigi meiddu þeir um nætur-tímann fætur sínar á steinunum eda félli í gryf-jur; en þeir gættu þess ecki, ad þeir steyttu allt of fast á þeim hyrníngar-steininum, um hvorn talad verdur Esaj. 28, og féllu þessvegna í gryfju þá, hvar eckért vatn er inni. En þú skalt ei svo leita ad Jesú, kristin sála! heldur med ángri og trega hjarta þíns; eigi med lyktum, heldur med hjartgróinni elsku; eigi med logbrondum, heldur med einum horkveik sannrar trúar, sé hann log-lítill, þá vill hann þó ei slockva hann; eigi med sverdum og staungum, heldur med brákudum reyr vonarinnar, sé hann veikur, þá er hann samt í þínum veikleika máttugur. Hann taladi einasta eitt ord, segjandi: Eg em hann! og þó féllu hinar vopnudu hetjurnar á bak aptur; hinum somu ordum mun hann til þín tala nær þér mest álígg-ur. Blóskri þér syndir þínar, þá muntu heyra: Eg em hann, sem afpláña allar þínar syndir, og afmái þínar misgjordir. Ef mótlætid kremur þig, svo ad þú varla edur ei þykist mega undir rísa, og þú kallar til hans í neydinni, þá svarar hann þér: Óttast ecki! því eg em hann, sem er trúr, og freista einkis yfir megn fram, og géf freistíng-unni þann enda, ad þú fáir vel stadist. Ofbjódi þér Guds reidi, þá segir þinn Frelsari: Eg em

hann, sem Gud hefir þinna vegna straffad: eg em bølvan ordinn þinna vegna, svo þú yrdir blessan Guds í mér: hegníngin hefir á mér legid, uppá þad þú hefdir fridinn: mun Fadir minn himneskur taka gjøld af bádum ockur fyrir syndina? Sértu trúarveikur, þá segir hann: Lát þér nægjast mína náð, því eg em hann, hvørs kraptur ad fullkomnast í breisleikanum! Kvídir þú fyrir daudanum, af því þú hefir illa lifad, þá mun hann senda sinn góda Anda í hjarta þitt, til ad dreypa á sálu þína í hinum sídustu andarslitrum af þessum kaleik: Vertu hughraustur, sonur! þér eru þínar syndir fyrirgéfnar, því eg em hann, sem þad hefi afrekad í minni kvøl med mínum dauda, ad hver, sem trúir á mig, hann skal lifa, þótt hann deyi. Honum sé lof og dýrd ad eylífu! amen! Og er þad nú svo úttalad um hid fyrra.

Vér viljum med fám ordum yfirvega hid sídara. Vinur! hvar til komstu híngad? segir Endurlausnarinn. Af hvørri spurníngu þíns Frelsara þér ætti fyrst til hugar ad koma, Guds barn! hin óumræðiliga høgværd og þolinmædi Guds eingétins Sonar. Hvørsu smánarliga ad Júdas hafi breytt, þad høfum vér heyrt til forna, og hvad sárt þad muni hafa runnid Drottni til rifja, ofaná alla adra hans kvøl og ángist, ad hann svikinn var af sínum eigin lærisveini, því má hvør einn nærri géta, sem nockra tilsinníng

hefir í sínu hjarta; en í öllu þessu er Jesú guddómliga hógværd hin sama, og hann talar ecki eitt stygdaryrdi vid þenna skálk. Hver kann nú med hjartanu ad ímynda sér, lángt sídur med ordum út ad skíra, svo óumrædiliga gédgæsku? Margur þykist gjöra vel, ad hann þegir vid óvin sínum og virdir hann ei vidtals. Fabíó Maximo er hrósad fyrir þad, ad hann þagdi einsog fiskur, þegar hann ákærdur var af Rómverjum fyrir sín mörgu afreksverk. Sócrates er og vídfrægur fyrir hans hógværd, þar hann ecki lauk upp munni sínum, þegar hans eiginkvinna gjördi honum þúngar árásir. Líkligt er, ad svoddan menn hafi þagad í mótgángi sínum þessvegna, ad þeir hafi ei þókst géta hann med ordum útmálad, edur og drepid reidina med sér, ad hún ei gjördi túnguna óstöduga. Jesús þegir ecki vid Júda, heldur talar til hans med hæglæti; hann er ecki einasta í þaunkunum hógvær, heldur sýnir hann gnægd hjartans med munninum; ecki þegir hann vid hinum gudlausa svikara, heldur áminnir hann med hógværum anda. Þad hefir skéd, ad þegar einum konúngi hefir byrlud verid nockurskonar ólifjan, og þeir hafa þess á-skynja ordid, ad þeir hafa látid hinn sama afdrecka, sem ásteinkti; hver kann ímóti ad mæla, ad þad sé réttvíst í allann máta? Hvad skulum vér hér til segja? Kunna nockud veraldligir konúngar ad hafa svoddan rétt yfir þegnum sínum, svo sem

Jesús hafdi yfir Júda? Kann madur manni svo réttvísliga ad reidast, svo sem Gud manninum? Kann ein sképna annari sképnu svo undirgéfin ad vera, svo sem sképnan Skaparanum? Kann einn syndugur svo stórliga ámóti ødrum syndugum ad brjóta, einsog syndarinn móti Gudi? Hverju er þá lík sú óútsegjanliga þolinmœdi, ad Jesús brúkar ecki sinn rétt vid Júdam? Júdas var fremstur í flocki ad byrla honum þann súra kaleik, sem hann grátandi beiddi ad mætti frá sér takast, og mátti þó ecki bænheyrdur verda, hann í hvørs nafni allar Guds barna-bænir eru þó: já, og amen. Minn Herra! hvad miklu verdugri var hinn flærdarfulli svikarans munnur ad afdrecka þenna hinn banvæna kaleik, heldur enn þínar blessudu varir, á hverjar nádin er úthellt? Hvad hægt var þér ad láta jordina opnast og svelgja skálkinn, einsog Kóre, Datan og Abíram? þad var furda, ad hún skyldi taka vid þínum blóduga sveita, en þola, ad slíkur Djofuls sonur skyldi standa á jordunni. Hvad lítid kostadi þig ad láta líkþrá uppeta hans hold, einsog Maríu? Hvar var nú þín vandlæting, sem eyddi Sódóma og Gomorra med eldi, hvored sló Egyptaland med plágum og dreckti Pharaóni og hans lidi, sem létst uppvisna Jeróbóams hond ámóti Guds manni útrétta, sem uppbrendi þá tvenna fimtígi Ahasíe konúngs og þeirra hofdingja, sem umsnéri Nebúkadnesar í villudýr; þú, er slóst Gésí

med líkþrá, sem létst hunda sleikja Achabs blód á Nabots akri, og drapst Húzza, er hann snerti Drottins ork af gáleysi? en hann, er mynntist vid þig med folskum kossi, sem ert hin sanna Guds ork, hann létstu heilann standa. Fyrir adra vandlættir þú, ó, Herra! en fyrir sjálfann þig vildir þú í þetta sinn ecki vandlæta. Hér mætti einn syndugur ormur skammast sín, sem er gjarn á reidi, hvers brædi er þyngri enn sandur, og þúngbærari enn kletturinn, hvor ávallt hefir þau ord í munni: svo sem hann hefir gjort mér, svo vil eg gjora honum, og gjalda líku líkt. Þú aumur madur, sem ei kannt upp ad reikna, hvad opt þú syndgar! ef nockur gjorir órétt þínu húsi, hvad gott hefir þú þaraf, ad þú hlaupir til þinna mordvopna med Leví og Símeon? Ef einn virdir þig ecki svo sem þér synist þinn uppblásinn nodrubelgur skilid eiga, þá fyllist þú af reidi einsog Haman, og ert ecki sáttur med eins hofud. Ef þinn yfirmadur talar þér nockud nær, enn þinn eyrnakládi býdur, þá virdir þú ecki fyrir þér ad gjora svosem Abner vid Isbózet. Vilji nockur forsvara sakleysi sitt móti þínum raungum áburdi og illum á-austri, mundir þú þá ei láta kasta honum í fjotur, einsog Zedeckíe konúngs hofdíngjar vid Jeremíam breyttu, ef þad stædi í þínu valdi? Gángi nockrum vel, muntu líta réttara auga til hans, enn Sál til Davíds? Vilji nockur dád og dugnad fremja, hvad fljótur verdur

Elíab til ad smána Davíd í ordum? Sé nockur Gudi og mennum þeckur, hvad snart rís Kain upp, og slær sinn bródur í hel, ef ecki med sverdi, þá med hanvænni túngu? Talar einn Guds erindi, hvad fljótt hitna Balachs nasir ámóti Bíleam? Mun ecki hinn heimski Ása konungur brenna af reidi vid sjáandans átølur? Ef Naboth vill ei standa af sínum víngardi og sinni føðurleifd, þá verdur Achab sjúkur af heipt. Vill nockur forsvara sinn bródur, þá hlífist Sáls reidi ecki vid son sinn Jónathan. Hefir nockur umflúid vél og pretti hins hreckvísa, þá tekur Heródes stefnuna af smá-børnunum. Ef hinum ágjarna blótmanni er hindrun gjørd í hans rángsnúnum fédrætti, þá hleypur hann med Demetríó, og vill hafa Krists þénara af døgum rádid. Sér nockur aumur á einum vesæling, sem villt hefir farid, þá reidist hans bródir, og fæst meir um hinn slátrada kálf, enn sinn bródur aptur fundinn. Hinn líkþrái Naman fær ei umborid þad, ad Elíseus ei géck út til hans, og bad sinn Gud fyrir honum standandi, svo þar var skamt til, ad hann mundi fara á mis vid heilsu sína, sokum reidinnar. Þú villt og kann-ské þannig breyta, sem útvortis ert heilbrygdur, en innan hvítur af líkþrá, sem utan ert skínandi, en fullur allrar óþecktar hid innra, einsog daudra manna grafir, já verri enn Thyestes, hvored var grøf sinna eigin barna; samt bólgnar þú upp af hatri, ef nockur þér ámóti brýtur, og veizt

ecki nema þín reidi því valdi, ad þú hljótir ad deya í þinni líkþrá; og þó villtu ennþá, kristinn madur heita og Jesú lærisveinn, sem ecki eitt ofugyrdi taladi ámóti þeim, er hann sveik; en þad er ecki nóg ad vera Christí lærisveinn, eins- og Júdas var. Þarfyrir vilji reidin koma þér til ad stela hefndinni frá Gudi; géti stórlæti þitt ecki þolad sannleikann; ef ofundin vill koma þér til ad umsitja saklaust blód, edur skap þitt er á einhvorn hátt búid til hefndar, til ad gjora skada med ordi edur verki: þá lát sem Jesús til þín tali: Vinur! hvartil komstu híngad? meinar þú ad þín reidi verki Guds réttlæti? ertu kristinn, þá ertu minn lærisveinn; ertu minn lærisveinn, þá nunntu af mér læra; viljir þú af mér læra, þá lær, ad vera hógvær og af hjarta lítilátur, svo sem eg var, annars ertu mín ecki verdugur; viljir þú fylgja mér eptir inní mína dyrd, þá fylg mér eptir í minni hörmúngu; deil ecki meir á vegi þinnar sáluhjálpar vid þína brædur í heiminum, enn eg deilda á veginum til minnar pínu vid þann, er mig sveik; legg af reidi og illgirni, Kól. 3, og lát ei sólina undirgánga yfir reidi þinni; lát ei yfirstíga þig hid vonda, heldur yfirvinn þad vonda med gódu; mín er hefndin, eg vil endurgjalda, Heb. 10; hvor hann órétt gjörir, hann mun þad aptur medtaka, og nema þú fyrirgéfir útaf hjarta þínum bródur hans misgjordir, þá mun minn himneski Fadir ecki tilgéfa þér þínar syndir.

Ímynda þér Jesúm med þessu tali, standanda fyrir augum þér í reidi þinni, og muntu sjaldnar reidast ófyrirsynju. En þú, saklausa Guds Lamb! sem ecki upplaukst þínum munni, heldur enn einn saudur til slátrunar leiddur, þegar þér hallmælt var, þegar þú svikinn og af døgum rádinn varst: drep þú í oss þótta spillíngarinnar, en lát oss þykja þad hina mestu æru, ad líkjast þér í ángistinni, í ofsóknunum, í forsmáninni, svo ad þegar vér erum veikir, þá séum vér máttugir, fyrir þig, sem oss máttuga gjørir! Veit oss þad, gódi Jesú! og styrk oss þartil med krapti þíns Anda! amen!

## Þridja Midvikudags Prédikun í Føstu.

En flockurinn og hinn ypparsti hofudsmadur, og þénarar Gydínganna gripu Jesúm og bundu hann, og leiddu hann fyrst burt til Hannam, sá var fadir konu Kaíphe, hvor ed þá var þess árs ædsti prestur; og þeir burtleiddu Jesúm fánginn til Káipham kennimanna hofdíngja; en Kaíphas var sá, sem Gydíngum gaf þad

ráð, að betur færi það einn maður dæi fyrir fólkið. Og þeir innleiddu hann í hús þess ypparsta prests, þar eð með hönum allir kénnimanna-höfdíngjar, skriftlærðir og öldúngar voru samankomnir. En Símon Pétrus fylgdi Jesú eptir álengdar allt í forstofu kénnimanna-höfdíngjans, og einn annar lærisveinn; sá sami lærisveinn var kunnugur kénnimanna höfdíngjanum, og gékk inn með Jesú í forstofu kénnimanna-höfdíngjans, en Pétur stód þar úti fyrir dyrunum. Þá gékk út sá annar lærisveinn, sem kénnimanna-höfdíngjanum var kunnugur, og taladi við dyravördslukonuna, og leiddi Pétrum inn lengra í forstofu kénnimanna-höfdíngjans; og hann gékk inn, þvíað þénararnir höfdu eld kveiktann í midri forstofunni og setst til samans; en Pétur setti sig ámillum þeirra og vermdi sig við logann, að hann sæi hvör endir þará yrdi. En Pétur sat utar í forstofunni; og þar hann var fram betur í forstofunni, kom ein af ambáttum kénnimanna-höfdíngjans; og þá hún leit Pétrum sitja við logann og verma sig, leit hún til hans og starði á hann, gékk til hans og sagði: hvört ert þú og einn af þess manns lærisveinum? og þú varst með Jesú þeim Galíleiska af Nazareth.

En hann afneitadi hønum fyrir øllum, segjandi: kona! ei er eg, eg þecki hann eigi, og ei veit eg hvad þú segir; og hann géck úti fordyrid, og haninn gól. En þrælarnir og þénararnir stódu, sem gjort høfdu kolaeld, og vermdu sig, þvíad kuldi var; Petur stód þar hjá þeim og vermdi sig. En kénnimanna-høfdínginn spurdi Jesúm þá ad um hans lærisveina og hans kénníngu. Og Jesús svaradi hønum: eg hefi opinberliga talad í heiminum: eg hefi og med jafnadi kénnt í samkundu-húsum og í musterinu, þar ed Gydíngar, allstadar ad, koma til samans, og eckért hefi eg í leynum talad; hvad spyr þú mig ad þessu? spyr þú þá þar ad, sem heyrt hafa hvad eg hefi talad til þeirra; sjá þú, þeir hinu somu vita, hvad eg hefi sagt. En sem hann taladi þetta, þá gaf einn þénaranna, sem þar stód hjá, hønum einn kinnhest, og sagdi: skaltú svo svara biskupinum? Jesús svaradi: hafi eg illa talad, þá bevísa þad, ad þad sé órétt, en hafi eg satt sagt, hvarfyrir slær þú mig? Og Hannas sendi hann bundinn til Kaiphas kénnimanna-høfdíngja.

En ámbáttin, þar hún sá Petrum, tók hún aptur til ad segja þeim, sem þar hjá stódu: þessi er einn af þeim. En sem

hann géck útum dyrnar, leit hann ein önn- ur ambátt, og sagdi til þeirra, sem þar voru: þessi var og med Jesú af Nazareth. Og litlu sídar þareptir sá hann einn ann- ar og sagdi: þú ert og einn af þeim. Og Símon Petrus stód þar og vermdi sig; þá töludu þeir til hans: ertú af hans læri- sveinum? Og í annad sinn neitadi Petur aptur med eidi og sagdi: madur! eigi em eg, ecki þecki eg þann mann.

En þeir ædstu prestar og öldúngar, og allt rádid leitudu ljúgvitna ígégn Je- sú, svo ad þeir gæti honum í hel komid, og fundu ecki. Og þó margir ljúgvottar gengi þar fram ad, þá fundu þeir eckért, þvíad margir báru falsvitni ímóti hön- um, en þeirra vitnisburdir voru ecki sam- hljóda.

En ad sídustu stódu upp og gengu fram nockrir tveir falsvottar, og báru ljúgvitni ímóti honum, og sögdu: vér höfum heyrt hann segja: eg kann og vil nidurbrjóta þetta musteri Guds, sem med höndum er gjört, og á þremur dögum uppbyggja eitt annad, þad ei er med hönd- um gjört; en þeirra vitnisburdir urdu ennþá ecki samhljóda. Sá ædsti prestur stód þá upp midt á millum þeirra, spurdi Jesúm ad, og sagdi til hans: svarar þú

aungvu? hvad vitna þessir ámóti þér? en Jesús þagdi og svaradi aungvu. Þá andsadi enn aptur sá ædsti prestur, spurdi hann ad, og sagdi til hans: ertu Kristur, Sonur hins Blessada? eg særi þig vid lifanda Gud, ad þú segir oss, ef þú ert Kristur, Sonur Guds? Jesús sagdi til hans: þú sagdir þad; eg em; en þó segi eg ydur: hér eptir munud þér sjá Manns-sins Son sitja til hægri handar Kraptarins, og komanda í skýum himins! Þá reif kénnimanna-hofdínginn sín klædi í sundur, og sagdi: hann gudlastar; hvad þurfum vér nú framar vitnanna vid? sjá! þér heyrdud nú sjálfir hans gudlastan; hvad virdist ydur? En þeir fordæmdu hann allir, svorudu og sögdu: hann er daudans sekur.

Og litlum tíma þar eptir, nær einni stundu, styrkti nockur annar þad, og sagdi: ad sönnu var og þessi med honum, því hann er einn Galíleari. Og aptur gengu þeir ad, er hjá stódu, og sögdu til Peturs: sannarliga ertu af þeim, þvíad þitt túngu-mál er samhljóda og opinberar þig. Þá sagdi einn af kénnimanna-hofdíngjans þén-urum, frændi þess, sem Petur hjó af eyrad: sá eg þig ecki í grasgardinum med hon-um? Þá neitadi Petur því enn aptur, og

sagdi: madur! eigi veit eg hvad þú segir. Þa tók hann til ad formæla sér, og sverja: eigi þecki eg þann mann, um hvørn þér talid. Og jafnsnart, er hann nú taladi enn framar, gól haninn í annad sinn; og Drottinn snéri sér vid, og leit til Peturs. Og Petur minntist ordanna Jesú, er hann hafdi sagt til hans: ádur enn haninn galar tvisvar, muntú afneita mér þrisvar; og hann géck út og grét beisliga.

Þá tóku nockrir ad spíta á hann í hans ásjónu, og bordu hann. En þénararnir og þeir menn, sem héldu Jesú, dárudu hann og slógu, og byrgdu hans ásjónu, og slógu hann med knefum, spurdu hann og søgdu: spá þú oss, hvor er sá þig sló? og margt annad hádugligt søgdu þeir vid hann.

---

Þad er plagsidur gódra og vitugra hershøfdíngja, nær þeir draga út í hernad, ad þeir eggja lid sitt og segja þeim fyrirfram, hvad mikill háski þeim búinn sé, nema þeir berjist vaskliga, og svo heita þeir øllum þeim launum, sem góda framgaungu veita, en sjálfur er hann fremstur í flocki, ef vidþarf, svo adrir fylgi hønum þess ótraudari áeptir. Þannig hefir breytt hin mikla hetja, Drottinn Jesús; hann hefir ecki einasta einsamall vínpressuna trodid, ádurenn hann frambrunadi af Bozra í Edom í skrautligum búníngi, Esa. 63, þad er: ádurenn hann hrósadi sigri yfir sínum og allra þeirra óvinum, sem hønum vilja eptirfylgja í kvølinni og forsmáninni, svo þeir megi med hønum hlutskipti

taka í sælunni og í dýrdinni: heldur hefir hann þaradauki sagt þeim fyrir hvörra launa þeir mættu vænta sér; svo segir hann, Matth. 5: Sælir erud þér, nær þeir lastmæla ydur og ofsækja, og tala ígégn ydur alla vondsku fyrir mínar sakir, þó ljúgandi, fagnid þér og verid gladir, þvíad ydar verdkaup er nógligt á himnum. Stór má sú sæla vera, sem Guds bornum er búin í eylífdinni, þar mótlætíngar þessara tíma eru svo lítils verdar hjá henni. Páluss, sem hérum vottar, hann má án efa hafa fengid nockurn smeck af henni, þegar hann var uppryktur í hinn þridja himin, þar hann héldt sídan alla hluti þreck ad vera, hjá því ad ávinna Christum. En þótt ad Gud hafi ecki svo gjört öllum mönnum, sem Páló, um hvorn hid sama má segja, svo sem Drottinn sagdi vid Thómam fordum: Af því þú sást mig, Thóma! þá trúdir þú; þá skortir þó Gud ennú ecki í dag síns Anda krapt, til ad styrkja þá veiku fæturna, og hinar vanmáttugu hendurnar, þeirra sem ecki sjá og trúa þó, til ad berjast med sínum hertoga Jesú undir hans merkjum. Þad má vera einn daufur kristinn, sem ecki er svo fullhuga, svo sem einn strídsmadur, og þad er verra ad vera gudlaus, enn ærulaus; nú hleypur einn rádvandur strídsmadur aldrei frá merkinu, því hann veit þad er skömm svo mikil, ad hann sídan verdur aldrei neinnar æru verdur; skyldu þá Christí hermenn vera svo blaudir, ad flýa frá hinni fögru Jesú blódfánu, undir hvörja þeir svarist hafa í skírninni? Einn fullhugi gengur örugt fram í bardaganum, af því hann veit hann muni heidradur verda og gjöfum sæmdur, og berst hann þó uppá hid óvissa, og slær ástundum í vedrid, svo sem Páluss ad ordi kémst; en þad gjörir ecki hinn kristni; hann gétur aldrei ósigur hlotid, ámedan hann brúkar sömu strídsadferd og hans Hertogi, því þad sem hinum er hinn mesti skadi, þad er þessum hinn mesti ábati, sem er: forsmán, brigsli og hádúngar veraldarinnar, og ad sídurstu daudinn, hvörn Guds börn reikna sér fyrir ávinníng med Páló, þvíad vopn herfarar vorrar eru ecki holdlig, 2 Kor. 10, svosem Páluss segir. Í þeirri grein af píslarsögu Drottins, sem strax var upplesin,

verdur oss sýnt: hvørsu mikla smán, brígl og vanvirdu ad hann hefir þolad vor vegna af kénnivaldinu í Jerúsalem og þrælum þeirra; hvarum eg vil nockud framar tala, eptir því sem Gudspjallamenninnir hafa oss þad ritad eptirlátid, uppá þad enginn skori sig undan ad lída nockud þvílíkt Christí vegna, ef hönum kann þad til handa ad bera. Géf þú oss þinn heilaga Anda, Drottinn minn! til ad framkvæma þetta eyrindi sjálfum þér til lofs og dýrdar, en þinni kristni til uppbyggíngar! amen!

---

En þeir menn sem héldu Jesú spottudu hann segir í textanum. Hvør er þessi hin fáheyrda mínkun, Drottinn minn! ad þeir blindu hundar spotta þig, Konúng dýrdarinnar? Davíd segir, ad hann, sem á himnum situr, hædi ad þeim ógudligu; en hér sé eg, ad þeir ógudligu hæda ad honum, hvers hásæti ad himininn er og jordin skør hans fóta. Stór var fásinna Hanons Ammoníta konúngs fordum, er Davíd sendi honum hina bestu menn sína til ad hugga hann eftir lát fodur síns, þar hans rádgjafar komu honum til þeirrar illmennsku, ad leggja þeim hádúngar til, og senda þá aptur hædda og spéskorna til Davíds, 2 Sam. 10; en þó var sú vitfirring øllu meiri, ad Guds eigid fólk skyldi gjora gis ad honum, er sendur var til fortapadra sauda af húsi Israels, til ad hugga þá sundurknosudu í hjørtum eptir dauda síns fodur Adams, Róm. 5, í hvørjum ad dóu

allir hans eptirkomendur. Hinn heimski Ammoníta konúngur meinti, ad Davíd hefdi sendt sér njósnarmenn fyrir huggara, til ad ransaka borg sína og umturna henni. Svo blés Djofullinn Júdum í brjóst, ad Jesús kominn væri til ad uppleysa lögmálid, hvørs eyrendi þó var ad uppfylla þad: ad umturna þeirra setníngum, hvørs embætti var ad gjera síns Födurs vilja. Rek burt ambáttina med syni hennar, segir ritníngin, því sonur ambáttarinnar skal ecki erfa med syni hinnar frjálsu. Hvorninn hefir þá Israel brotist inní Ismaels kyn, og er ordinn einn spottari, líkur honum, yfirgéfandi sína kynslód, en hefir samlagad sig Djofulsins hyski med hædni og spotti vid hinn eingétna Guds Son, sem er ljómi hans dýrdar og mynd hans guddómligrar persónu? Þetta hefir þú fyrir oss lidid, minn Herra! sem forþénad hofdum ad verda til athláturs í augliti Guds útvaldra og h. engla um alla eylífd. En vér, Guds börn! þegar vér nú heyrum þessa smánarligu atferd Gydínga vid Hertoga dýrdarinnar, þá ættum vér ad gjalda varhuga vid, ad ecki samlögum vér oss illþýdi þessu med vidlíkum athöfnum ámóti Christí limum og vorum brædrum í heiminum. Fyrir hvad var Kristur spottadur? Fyrir þad hann géck í kríng, gjerdi gott og grædði alla; þad syndist, er þeir sögdu ad fyrir Belzebub djoflahöfdíngja ræki hann út djoflana, já, ad hann Samverskur væri og hefdi Djofulinn. Ecki

eru syndugir menn þess umkomnir, ad gjöra svo mikid gott af sér, svosem Drottinn gjördi á dögum holdsvistar sinnar; en þó er ennú margur sá, sem Christí anda hefir, ad hann gjöri slíkt gott, er hann kann Guds voludum saudum og naudstoddum, og vildi, ef hann gæti, í forsvar taka eckjuna, hinn fedurlausa og þann, sem rángindin lídur; en þetta hafa veraldarinnar born ad athlátri, hvorjum eckért svídur, nema þad, sem á sjálfum liggur, og dára þann, sem nockurs vill í missa fyrir náúngann, svosem þann, er ausi út gotsi sínu ad þarflausu og hafi sídan ecki ad lifa af, edur hætta fémunum sínum edur virdíngu fyrir uppreist lograníngsins svosem þann, er ecki beri vitsmuni til ad taka vara á sínum eigin efnum, heldur stofni sér í háska og vogi sér í þær hendur, sem honum eru máttkari; en þvílíkt er rétt-ad spotta Gud og hans Christ, hvorjum valla nockur hlutur er kærari, enn þessi. Hvad vann Kristur meira til þess, ad hann svo hæddur var af þessum spéfuglum? Þad, ad hann gjördi verk sinnar kallanar trúliga; hann kéndi opinberliga í musterinu, hvervetna í samkunduhúsum, og jafnvel í eydimorku, svosem Gudspjalls-sogurnar votta, og sjálfur var hann allar nætur á bænum. En munu nú ecki finnast þeir, ed gjöra gis ad því, ef nockur breytir eptir sínum Frelsara í slíku, og hlæa ad gudrækni hans barna, svosem einum óþorfum

hlut, þeim er ecki dragi lángt á veg til ad lifa farsælliga, og ei sé verdur til ad tapa fyrir gagni sínu? Svoddan gárúngar eru rétt eitt Djøfuls verkfæri, því þeir ecki einasta gánga í lid med Satan, heldur og koma ødrum þartil, sem í sjálfum sér eru þó ekki svo mjøg vondir, edur Gudi fráhverfir, þvíad heimsku mannlígrar náttúru er svo varid, ad hún byggir meiníngu sína heldur á annarra dómi, enn sínum egin, sérdeilis í hinu vonda, hvar Djøfullinn og holdid eru jafnan samverkandi; svoad eg má hérum segja þad, sem ad sagdi Kristur fordum daga um fals spámennina, sem ad upprísa mundu eptir sína himnafør, Matth. 24., ad af svoddan Andskotans gamni kunna í villu ad leidast jafnvel, ef ské mætti, útvaldir. Þad er ein stór heimska ad hlæa ad einum fyrir syndir sínar, og ennþá þótt hann hafi þær drýgt med ásetníngi, jafnvel þótt þad sé nú almenniligt ad kasta einum þvílíku í nasir, þar menn ættu þó ad aumka syndarann hvad mest þess vegna, því þad steypir honum í hina mestu eymd, sem ad er Guds óblída. En, erum vér þó ecki allir syndarar, og hvad brátt kann oss hid sama ad henda, ef Gud slær hendinni af oss? hvort þeim er hvad mest búid, sem henda gaman af annars slisum í stadinn þess þeir ættu ad leidrétta hann med hógværum anda. O, madur! þú, sem stendur, sjá til ad þú fallir ecki! og ef þú kynnir í nockud þvílíkt ad rata, hvad miklu þýngri mun þá verda þinn dómur

bædi í Guds og manna augliti, sem ádur hefir fellt hádúngar dóm yfir þinn bródur, þér kannské saklausara, því hann stendur og fellur sínum herra, og máttugur er Gud ad reisa hann, en fella þig, svo þú aldrei meir upp standir. Nú er þetta ein stór mínkun, og þó er þad enn meiri skomm, ad færa ad einum fyrir þau lýti edur vansa, er hann fær ei vidgjört, hvort heldur þad er á sálu edur líkama, því sá ed þad gjörir, hann hædir ad Skaparanum, hver ed gjördi báda þá eptir vild sinni. Páls skrifar: Segir nockud leirkérid til smidsins: hvarfyrir gjördir þú mig svo? en þá er sá heimskari enn leirinn, sem vill segja: hvarfyrir mun Skaparinn hafa gjört þennann mann svo háttadann? Þú vitfirríngur! eru þad þackir þær, er þú Gudi géldur fyrir þad, ad hann skapadi þig fagrann, enn hann ljótann, svo sem þú kallar, þig vitrann en hann fávísann, þig snjallann en hann málhaltann? edur segist ecki Gud hafa gjört yckur báda? Þú skynlaus madur! þér er miklu verr farid enn honum; lýti hans líkamà munu ecki standa honum fyrir því, ad hann ei verdi á sídan líkur Jesú Christí dýrdligum líkama; hans einfeldni mun ei hindra Guds útvalníngu, sem hefir kjörid sér þad, sem er heimskuligt fyrir monnum, svo hann gjördi vitríngana ad hádi; hans málhelti mun ei banna honum ad lofa Gud med englanna túngu í dýrdinni, og eckért af þessu mun varna honum inngaungu í þá himnesku Jerúsalem; en þú munt þar

aldrei ad eylífu innkoma, nema þú stíngir út þad augad, sem þig hneixlar. Og nú er þetta tvennt svo íllt sem þad er; en þad er ennþá miklu argara, þegar einhvor veraldar sonur gjörir gis ad þeim, sem bera ok Drottins, hvorju helzt nafni sem heitir, hvort heldur þad er fátækt, heilsubrestur, ofsóknir vondra manna, edur hvad annad, sem Gud leggur á nockurn, hvor ed alleina kann ad fella og reisa; og eru svo almenniligir veraldarinnar dómar, ad þvílíkt hendi suma fyrir þeirra synda sakir, jafnvel þótt eckért viti þeir med þeim nema mannligann breiskleika, sem bædi þá og adra hendir; og gæta þeir lítt ad því, er Frelsarinn sagdi vid lærisveinana, er fréttu hann ad, hvort hann, sem blindur var borinn, hefdi syndgad edur foreldrar hans; en hann Blessadur svaradi: Hvorki syndgadi þessi né hans foreldrar, heldur svo ad Guds verk yrdi opinber, Jóh. 9. Villtu þá hlæa ad því, glópurinn vitstola! villtu, segi eg, gjöra gis ad því, sem hinn alvísi Drottinn gjörir til dýrdar sér? Já, hann sagdi ennþá, er hann heyrdi um þá í Galílea, hvorra blódi ad Pílatus blandad hafdi saman vid þeirra fórnar-blód: Meinid þér, ad þessir Galíleí hafi syndugri verid ödrum Galíleis, af því ad þeir lidu þetta? Lúk. 13. Nei, eg segi ydur, ad nema þér allir ydrist, munu þér eins fyrirfarast. Og hvada fásinna er þad þá, ad brúka þad til spotts og athláturs, sem er af Gudi gjört til ad vekja í oss ydrunina fyrir vorar eigin

syndir, er hid sama edur annad verra forþénad höfum, enn þeir, sem menn hæda ad; og í sannleika: þad er svo ómannligt, og eg má segja: Djöflinum líkt, ad hafa þad ad hádi, sem Gud leggur á einn honum til reynslu edur sídbóta, enn ödrum til vidvörunar, ad valla má ordum adkoma; og talar Davíd um þetta svosem hid mesta gudleysi á þenna hátt: Þeir hafa offókt þá, er þú hefir slegid, og gjöra sögur út af þeirra sorg, er þú særthefir! Ps. 69. Allir kristnir menn vita þad, ad þeim byrjar ad hafa hina mestu medaumkun med þeim, sem Drottinn hefir lagt sinn kross á herdar; og þarfyrir eru þeir lángt frá því, ad mega kristnir heita, sem vilja auka sorg þeirra med spéskap sínum og athlátri; hvad eru þeir þá? Djöfulsins börn og helvítis eyrindisrekar. Nú eru þetta hösud skamir, sem eg upptalid hefi; en hvörju nafni skal eg þad nefna, er eg fyrst umgat, sem er ad hæda ad einum fyrir þad hann gott gjörir, og þad, ad ógudligir menn fá ei lockad hann til ad syndga med sér? Eg vil segja: þar er eckért nafn til. Vilji eg segja þeir séu líkir illmenskú Gydínga, er hæddu ad Christó, þá verdur þeim þó ságt til umbótar, þad sem Páluš hafdi sér til afsekunar, er hann segir: Eg gjörda þad í óvitsku, af vantrú. Vilji eg jafna þeim vid Djöfulinn, og verdur þá ecki lengra jafnad enn til hans; þá er þó þar um ad segja, ad hann veit, ad hann á engrar miskunar von; en þessir

vita, ad á hverjum tíma sem hinn ógudligi snýr sér frá sínu gudleysi og fremur réttvísina, þá skal hann lifa og ecki deya, allra hans synda skal ecki ad eylífu minnst verda; og þó æfa sumir menn þvílíkt gudleysi ydrunarlaust allt framí daudann, hafa gaman þaraf og meina litla edur enga synd ad vera. O, þér hin skynlausu bernin! leggid af þvílíkann dáraskap, og látid Jesú sáru píslir kvelja í ydur spottunarinnar anda, þegar hann tekur til ad kitla ydur, svo ei verdi þér sídan til eylífrar skammar og eylífs athláturs á landi forsmánarinnar, hvarfrá Gud vardveiti oll sín bern í Jesú nafni!

Þeir hrækja í þitt andlit, minn Herra Jesú! J 5 Mós. 25 kap. var þad straff lagt á hann, sem ecki vildi uppvekja sínum bródur sædi, ad í hans andlit skyldi fólkid hrækja. Adam var bródir Drottins, því hann verdur og Guds sonur nefndur, Lúk. 3; hann gat engin bern eptir Guds mynd, heldur sínni eigin, og eptir holdsins vild og mannsins vilja, Jóh. 1; en Jesús hefir honum sædi uppvakid, þar vér erum i honum endurgétnir til lifandi vonar, 1. Pet. 1, og aptur Guds erfíngjar ordnir. Þó sé eg, minn Herra! ad þú verdur hér straffadur svosem hann, er ei vildi uppvekja sínum bródur sædi; svo hefir Gud gjort þig ad synd, sem ecki varst synd, og þú ert ein bolvan ordinn fyrir vorar syndir, sem ert Gud blessadur um aldir alda, svo vér yrdum blessan Guds í þér. Þá Jesús læknadí

hinn daufa og blinda, þá hrækti hann út, Mark. 7; hjá Jóhannes í 9 kap., lesum vér, ad hann gjørdi leir af hráka sínum og reid á augu hans, sem blindur var borinn. O, Herra Gud! mun sólin nockurntíma hafa þvílíka hádúng séd edur svo vidurstyggiligann glæp, ad hann, sem jafnvel med hráka sínum gjørdi þad bert, ad hann Guds sonur væri, hver ed græddi þá blindu: hann verdur hér einn almenniligur hrákastadur þeirra blindu hunda, Ps. 22, sem hann umkrígdann hefdu? Um Maríam, systur Arons hofudprests, sagdi Gud fordum: Hefdi fadir hennar hrækt í andlit henni, þá hefdi hún mátt skammast sín í sjø daga, 4 Mós. 12; þarmed er meint, ad hefdi fadirinn óvirdt hana fyrir glæp nockurn, þá hefdi hún mátt blygdast fyrir honum nockra stund, hvad miklu framar þar hún hafdi meglad ámóti Drottni allsherjar. Þetta gefur mér ad hugleida, ad brúdur hins ædsta Hofudprests sálna vorra, hún hafdi meglad ámóti Gudi og kastad hans bodordum á bak sér aptur, því hafdi hún til þess unnid, ad hrækt væri í andlit henni, og ad hylja sig fyrir Guds nádar-augliti, ecki um sjø daga einúngis, heldur um alla eylífd eylífdanna; en uppá þad hún yrdi keypt undan hrákum djøflanna í helvíti, þá segir hennar Brúdgumi, Esa. 50: Eg hulda ecki mitt andlit fyrir hrákunum. Sú ritníng er hér uppfyld, því hans dýrdarfulla andlit, á hvers varir nádin er úthellt, hvert ad er þægiligt

og mjøg elskuligt, hvørt ad er fegra enn allra mannanna sona, hvørs augu ad eru skærari enn sólin: þad verdur, segi eg, afmyndad af hrákum ógudligra manna, svo ad vor mynd, sú ed af hrákum og saurindum verstu synda og glæpa var svo afskræmd, ad hún vard ecki þvegin nema med Guds blódi, ad hún yrdi þess verdug ad kyssa Soninn, svo hann yrdi oss ecki reidur, Ps. 2, og vér þyrftum ei fyrir hádúngar vors úngdóms ad standa raudir af óvirdíngu fyrir hinum réttláta Dómara á sídasta degi. Í opinberíngar bókinnar 3 kap. segir Drottinn: Eg væri til frids þú værir heitur eda kaldur, en fyrir því ad þú ert volgur, þá vil eg skyrpa þér útaf mínum munni. Vér megum þad med bljúgum munni játa, ad vor gudhrædsla er ástundum ecki nema velgja fyrir Gudi; menn látast dyrka Gud í hans musteri, en offra þó á hædunum veroldinni, eins og Júda gjordi; lán sitt og gæfu látast menn Gudi þacka, svosem vera byrjar, en færa þó fórnir neti sínu margur hvør, og gefa sér dyrdina og forsjá sinni, en ecki hinum lifanda Gudi, og gjora gis ad náunganum, sem midur lídur; menn segjast elska Gud, en margur hatar sinn bródur og þó fyrir litla sok; Gudi látumst vér þjóna, en mammon má þó ecki sinnar þjónustu í missa; Lambsins brúdkaup viljum vér sitja, ef vér mættum þad vegna akneytanna og búgardsins; svo haltra menn á bádar sídur med prestum Baals. Hvílík

velgja er nú ecki þetta, nema midur sé? Fyrir þessa óhlutvendni í Guds þjónustu, þá hofdum vér til þess unnid ad hann spýtti oss útaf munninum í þad dýkid, sem rýkur af eldi og brennusteini. Þarfyrir er nú í Jesú allrahelgustu ásjónu hrækt, hvor ed brunnid hefir af guddómligri elsku til vor, og þetta leid hann af hinum verstu syndaþrælum. Sjáum nú til, ad vér ecki fyllum þenna Satans flock í andligann máta! Vor samvitska er svosem andlit sálar vorrar, sem er brúdur Christí; tökum oss vara, ad ei afmyndum vér ásjónu hennar med fúlum hrákum glæpa og illgierda! Kristur byggir í hreinni samvitsku, því ad í henni lýsir Guds andlit svosem í fögrum speigli; þar fyrir segir Drottinn, Matth. 5: Sælir eru hreinhjartadir, því ad þeir munu Gud sjá; en allir þeir, ed ydrunarlaust framfara í syndum og glæpum, og flecka þannig samvitsku sína, þeir mættu sýnast ad spýta hrákum í andlit Drottins. Gydíngar þecktu ecki Jesúm, er þeir frömdu óhæfu þessa; en vér þeckjum hann, kristnir menn! hann er oss fyrir augum máladur í sínu heilaga ordi; vér játum hann sannann Gud ad vera; vér erum í hans nafni skírdir til fyrirgéfníngar syndanna; vér medtökum hans hold og blód í heilagri kvöldmáltíd oss til miskunar og sáluhjálpar; vér vitum ad hann er uppfarinn í hædirnar og hefir monnunum gáfur gefid, og sendt sinn Anda til ad sannfæra heiminn um syndina, og um réttlætid, og

um dóminn; og skyldum vér nú gjörast lagsmenn hinnar vantrúudu kynslódar til ad hrækja í andlit Jesú ad nýu, þar hann situr til kraptarins hægri handar, þá er oss öllu midur farid enn þessum blindu Gydíngum.

Þessi Djöfuls samkunda lætur ei hér med búid, heldur auka þeir smánina med högg-unum, og slá Jesúm í hans andlit, segir text-inn. Þarum spáir Drottinn, Esa. 50, segjandi: Eg lét í té minn líkama þeim er mig slóu, og mínar kinnar þeim er mig reittu. Þad var sidvani hjá Grickjum, ad nær þrælum var lausn géfin, þá voru þeir púströum slegnir í sínar ásjónur; en Jesúm, allrar veraldarinnar lausnara, slá þessir ógudligu skálkar kinnhestum. En med þessari sinni þræls mynd hefir Frelsarinn útvegad oss eylífa lausn af þrældómi syndarinnar og Djöfulsins; þar-fyrir ættu kristnir menn þess minnugir ad vera, ad géfa honum ecki pústur med ógudligum verk-um. Eg hefi sett mitt andlit svosem tinnustein, segir hinn Utvaldi Guds, Esa. 50; hvarmed hann teiknar sína ósigrandi þolinmædi í pínunni, ad hann hafi ei vikid sér undan höggum ógudligra manna, heldurenn þá eitt bjarg er slegid. En þad er grátligt til ad vita, ad Jesú pústur, er hann saklaus þoldi, jafnvel fyrir þá, er slógu hann, hann skuli ei vinna á eitt ydrunarlaust hjarta, meir enn á einn tinnustein, og þad er hvörjum demant hardara. Þessir lemja Jesúm med hardúd sinni, med hvörri þeir og safna sér reidi á degi reidinnar og

Guds réttlætis dóms, um hverja Páls segir, að þeir krossfesti Kristum að nýu, og sáttmálans blóð almenniligt haldi, með hverju að syndarinn er endurkeyptur, Heb. 6. Þeir géfa og Jesú þústur þúng, er heyra hans orð með daufum eyrum og forsmá hans þénara, er boða þeim veg friðarins, og leggja þeim háðúngar til fyrir hið besta verk, sem er: ástundan þeirra sálargagns, fyrir hvort þeir ættu þó tvofaldligs heiðurs verðugir að vera eptir Páls boði. Þetta var hans sök, hvarfyrir hann var sleginn af güðlausum monnum, sem er þeirra Herra; en segir hann ecki: Hvor hann forsmáir ydur, hann formáir mig, en hver mig forsmáir, hann forsmáir þann, er mig sendi. Fá eru þau dæmi að sonnu, að Guds þénarar hoggum sæti af sínum tilheyrendum, jafnvel þótt þau séu alltofmorg; en sumum ætla eg að opt hamli meir ótti enn gædska, og að þeir muni géfast, er hugsa það sama um prest sinn, er Bileam sagdi við ösnuna forðum, er hún ecki vogaði að ráðast á engilinn, er stóð á veginum fyrir henni: Væri nú sverð í hendi mér, þá mundi eg drepa þig. Taki menn sér því vara fyrir slíku, því hvor hann snertir Guds trúlynda þénara með heiptarhug eður hendi, hann snertir Guds augastein.

Þessa hædni, þessa hráka, þessi hogg og slog áréttuðu Gydíngar með ennþá meiri háðúngum: þeir byrgðu hans andlit og sogðu: Spá þú oss, Christe! hver er sá þig sló? Þeir vissu, að fólkið hafði sagt:

Spámadur mikill er ámedal vor uppriſinn, og Gud hefir vitjad ſíns fólks, Lúk. 7; en nú vilja þeir med þeſsari ſmánarligu adferd keſja þeſsa almúgans meiníngu; ſvo má nú ſpekin réttlætaſt af ſínum ſonum, Ordskv. 8. Jesús var hin eylífa ſpekin Guds, og í honum bjuggu allir fjárſjódir vitſkunnar, Kól. 2; en hér, verdur hann ſvoſem einn dári útleikinn, og ſvo ſem eina leikafælu er med hann hondlad. Þad var venja, ad þegar einn blygdadiſt fyrir ödrum, þá huldu þeir höfud ſitt, ſvo ſem Rebecka, er hún ſá Iſaak gánganda á akrinum. En hvad bar þér til blygdunar, Drottinn minn! fyrir hvörjum öll ſkepnan á blygdun ad bera, þad þeir blygdunarlauſu ſkálkar huldu höfud þitt? Vér vorum til ſkammar ordnir og höfum byrgt vor höfud med Júda; því öllu ſyndir vorar, ſem adſkilja ámilli vors Guds og vor, ad vér máttum ecki Guds blída andlit ſjá; en hvad hafdi þeſsi gjört, þar hann var flecklaus, hreinn og heilagur og frá ſkilinn ſyndurunum? Hebr. 7. Þegar Adam hafdi ſyndgaſt, þá ſkyldi hann ſér í gardinum, því ſyndin gat ei leynt hans blygdun; en uppá þad, ad hann og allt hans hyſki þyrfti ei ſín eylífliga ad ſkammaſt, þá er Jesú blída andlit hulid, ſem þó upplýſir þá himneſku Jerúſalem. Þeir, ſem til dauda dæmdir voru og hvörjum kóngurinn reidur var, þeir voru byrgdir, ſvo ad ecki ſæu þeir hans andlit; ſvo gjördu Aſsveri þénarar vid Haman fordum, Eſt. 7.

Það mætti og segja, að Guð Faðir hafi látið síns eingétins Sonar ásjónu byrgja, þegar hann var honum reiður fyrir uppálagðar syndir, og hann hafði álýktað að géfa hann í dauðann fyrir oss; en fyrir þessa skýlu þíns andlitis hefir þú, Drottinn minn! íburt tekið þá skýluna, sem fyrir vorum augum var, þegar vér ekki þecktum Guð, og skynjuðum ekki hvað hans Andi var, hvor skýlan að enn nú hángir fyrir augum vesællra Gyðínga, svo að sjáandi þá sjá þeir ekki, og heyrandi þá heyra þeir ekki, Róm. 11. Þarfyrir sjáum nú til, kristnir menn! að vér, sem betur upplýstir erum enn Gyðíngar, að vér gaungum forsjálliga, svo sem á degi, og afleggjum verk myrkranna, en fylgjum ekki dæmum þeirra spottaranna, er segja: Hvar er dagur hans tilkomu? Þeir eð sjá einn nakinn, og klæða hann ekki, húngraðann, og metta hann ekki, þyrstann, og géfa honum ekki að drecka, og hylja sig þannig fyrir sínu eigin holdi, þeir byrgja Jesú andlit, því hann vill segja á efsta degi: Hvað þér gjorðuð ekki einum af þessum mínum minstu bræðrum, það gjorðuð þér mér ekki! og þá munu þeir ekki byrgja hans ásjónu, því þeir munu sjá hann, er þeir stúngið hafa, og hann þá; en hálsunum munu þeir segja: Byrgið oss! og fjellunum: Hrynjið yfir oss! Þeir eð draga syndir sínar í hlé fyrir Guði, og þær ekki játa vilja, þeir hylja og Jesú andlit, svo hann vill þeim ekki náðugur vera. O, manneskja! hvor ertú sem það hyggur, að þú fáir hans augu blind-

'ad, sem eru þúsundsinnum skærari enn sólin? edur sett honum brillur á nasir, sem grant sér hvad í myrkrunum er hulid? edur munn han ecki sjá, sem augad hefir skapad, edur heyra, sem eyrad hefir plantad? Dyl ecki sár þín fyrir hinum góda Meistara, sem fyrir þau kránkdæmi, er hann bar, og þau orkumsl, er hann á sig hlód, kann best ad græda allar vorar meinsemdir. En manneskjan er svo fávís einsog smáborn: ef þau sjá voda nockurn, þá byrgja þau fyrir augu sér, og meina ad þeim sé enginn háski búinn, ef þau sjálf eckert sjá; svo erum og vér, sem sjáum ígégnum fíngur vid sjálfa oss og fyrirgéfum oss sjálfir marga hluti, ad vér meinum þad verdi þá svo álitid í himninum; en hvad er slíkt annad enn ad smyrja kaun sín med purpura farfa, hvor þó eru fúin og rotin þar undir! því hann, sem á stólnum situr, hann dæmir ecki eptir því, sem hans auga sér, og ecki svo, sem hans eyra heyrir. Játum því Drottni misgjordir vorar med Davíd, þá mun hann fyrirgéfa oss þær. O, Jesú, allrar nádar og miskunar brunnur! lúk þú upp augum vorum, ad vér þeckjum vor afbrot, og drögum ei dulur á vora blygdan; lát oss kannast vid, ad vér séum naktir og hofum alls þorf, svo þegar vér á degi alls holds skulum birtast fyrir þínum dómi, ad vér þá ei verdum naktir fundnir. Fyrir þá miklu og óforþéntu skomm, er þitt andlit hulid hefir vorra blód

skamma vegna, þá virdstu ad hylja vorar misgjörðir á þeim stránga degi, og fær oss í eitt fagurt klædi, svo ad blygdan vors fatleysis ecki opinber verdi, já einn hvítann skrúda, sem fágadur sé í þínu blódi, þú saklausa Guds Lamb! sem veraldarinnar syndir borid hefir; þér med Fødur og Heilögum Anda sé speki og kraptur, dýrd og veldi um aldir alda, amen!

---

## Fjórda Midvikudags Prédikun í Føstu.

Og strax um morguninn, er dagur var, søfnudust saman og héldu rádstefnu allir ædstu prestar med øldúngum lýdsins og skriftlærdum, og þaradauk øllu rádinu móti Jesú, svo ad þeir gæti hønum í hel komid, og leiddu hann upp fyrir sitt ráð, og søgdu: ef þú ert Kristur, seg oss þad! Og hann sagdi til þeirra: ef eg segi ydur þad, þá trúid þér því eigi, en ef eg spyr ydur, þá svarid þér mér eigi eda látid mig lausann; nú hédan ifrá mun Mannsins Sonur sitja til hægri handar Guds kraptar.

En þeir sögdu allir: ertu þá Guds Sonur? Hann sagdi þá til þeirra: þér segid þad, eg em hann. Þá sögdu þeir: hvad þurfum vér nú vitnisburdinn lengur, vér sjálfir heyrdum þad af hans munni. Og allur sá þeirra skari stód upp og bundu Jesúm, og leiddu hann íburt frá Kaiphas og í þínghúsid, og ofurseldu hann landsdómaranum Pontíó Pilató; en þad var snemma morguns.

Þá er Júdas, sá er hann hafdi forrádid, sá þad hann var til dauda dæmdur, ydradist hann þess, og færdi aptur þeim ædstu prestum og öldúngum þá þrjátigir silfurpenínga, og sagdi: syndgad hefi eg ad eg forréd saklaust blód; en þeir sögdu: sjá þú þarfyrir, hvad kemur þad vid oss! Og hann snaradi þeim silfur-peníngum í musterid, skundadi þadan, gékk íburt og heingdi sjálfann sig. Enn þeir ædstu prestar tóku silfurpeníngana og sögdu: eigi hæfir ad vér látum þá í Guds kistuna, þvíad þad er blóds verd. En þeir héldu eitt rád, og keyptu med þeim leirsmids akur, framandi mönnum til greptrunar; fyrir þad er sá akur kalladur Blóds-akur allt til þessa dags. Þá er uppfyllt hvad sagt er fyrir Jeremíam spámann segjandi: þeir tóku þá þrjátigi silfurpenínga, er hinn seldi var med betal-

adur, hvorn þeir keyptu af Israels börnum, og hafa gefid þá fyrir leirkerasmids akur, eptir þvi sem Drottinn hafdi mér bodid.

Og höfudprestarnir og öldúngarnir gengu ei sjálfir inní þínghúsid, ad þeir saurgudust eigi, heldur svo þeir mætti neyta páskanna. Pilatus géck þá út til þeirra og sagdi: hvorja ákæru færid þér ígégn þessum manni? Þeir svorudu og sögdu til hans: ef þessi væri ei illrædismadur, þá hefdum vér eigi í hendur fengid þér hann. Þá sagdi Pilatus til þeirra: *takid þér hann þá og dæmid eptir ydrum lögum.* Gydíngar sögdu þá til hans: *oss leyfist ecki ad líflata nockurn;* svo ad þad ordid Jesú uppfyltist, er hann sagdi, *teiknandi þarmed, hvorjum dauda hann skyldi deya.* En Jesús stód frammi fyrir landsdómaranum. En þeir tóku ad áklaga hann og sögdu: þennann finnum vér ad hann frásnýr fólkinu, og fyrirbýdur skatt ad gefa keisaranum, og segir sig ad vera kónginn Kristum. Þá géck og í annad sinn inn landsdómarinn Pilatus, kalladi Jesúm og sagdi til hans: ertu kongur Gydínga? Jesus svaradi: talar þú þad af sjálfum þér, eda hafa adrir sagt þér þad um mig? Þá svaradi Pilatus: er eg nockud Gydíngur? þín þjód og kenni-

manna höfdíngjar ofurseldu þig mér; hvad hefir þú gjört? Jesús svaradi: mitt ríki er ei af þessum heimi; ef ad mitt ríki væri af þessum heimi, þá mundu mínir þénarar strída þar fyrir, svo ad eg ofurseldist ei Gydíngum; en nú er mitt ríki eigi þadan. Þá sagdi Pilatus til hans: ertu þó samt kóngur? Jesús svaradi og sagdi til hans: þú segir þad, eg em og kóngur; til þess er eg fæddur og í heiminn kominn, ad eg beri vitni sannleikanum, og hvör hann er af sannleikanum, sá heyrir mína rödd. Pilatus sagdi til hans: hvad er sannleikurinn? Og þá hann hafdi þetta sagt, gêck hann út aptur til Gydínga og sagdi til þeirra yppurstu presta og til lýdsins: aunga sök finn eg med þessum manni. Og höfudprestarnir áklögudu hann hardliga. Og sem hann áklagadist af þeim ædstu prestum og öldúngum svaradi hann aungu. Pilatus spurdi hann aptur ad, og sagdi til hans: svarar þú aungu? heyrir þú ecki? sjá hvörsu hardliga þeir áklaga þig! En Jesús svaradi hönum aungu framar til nockurs ords, svo ad landsdómarinn undradist þad næsta. En þeir voru þess ákafari og sögdu: hann hefir uppæst fólkid, med því hann hefir kennt á öllu Gydíngalandi og hefir tiltekid í Galliea allt híngad. En er Pilatus heyrdi

Galíleam nefnda, spurdi hann ad, hvört hann væri einn Galíleari; og er hann fornam, ad hann var undir Heródis veldi, sendi hann hann burt til Heródem, sem einninn var á þeim sömu dögum í Jerúsalem. En er Heródes sá Jesúm, vard hann næsta gladur, þvíad hann hafdi fyrir laungu girnst ad sjá hann, af því hann hafdi margt heyrt af hönum, og hann vænti, ad hann mundi sjá eitt teikn af hönum, og adspurdi hann á marga vega, en hann svaradi hönum aungvu. En kénnimannahöfdíngjar og skriftlærdir stódu og ásökudu hann hardliga. En Heródes med sínum stríðsmönnum forsmádi hann og spottadi, færdi hann í hvítt fat og sendi hann aptur til Pílatum; og á þeim degi urdu þeir Pílatus og Heródes vinir aptur, þvíad ádur voru þeir óvinir sín ámilli.

En Pílatus samankalladi prestahöfdíngja og höfudsmenn og lýdinn, og sagdi til þeirra: þér hafid þennann mann til mín haft, svo sem þann, er frásnýr fólkinu, og sjáid! eg hefi yfirheyrt hann hér fyrir ydur, og á þessum manni finn eg einga af þeim sökum, þarum þér klagid hann, og ei heldur Heródes, þvíad eg sendi ydur til hans, og sjáid! ekkért er af hönum gjört þad dauda sé verdugt, fyrir því vil eg refsa hönum og láta lausann.

En á hátídardeginum hlaut landsdöm-

arinn eptir venju fólkinu lausann ad láta einn bandíngja, hvorn helst þeir vildu, og eptir hvorjum þeir beiddust; en þá hafdi hann einn nafnkéndann bandíngja framar odrum, sá ed Barrabas hét, med upphlaupsmönnum bundinn, hvörjir í upphlaupinu höfdu víg unnid. Sem þeir voru tilsamans komnir, sagdi Pílatus til þeirra: þad er ydar sidvenja, ad eg géfi ydur einn lausann á páskum; og fólkid kalladi upp, og tók til ad bidja, ad hann vildi gjöra sem hann væri vanur. En Pílatus svaradi þeim og sagdi: viljid þér ad eg géfi ydur nú Gydínga kónginn lausann? hvorn viljid þér ad eg géfi ydur lausann, Barrabam eda Jesúm, sem kallast Kristur? þvíad hann vissi vel, ad höfudprestarnir höfdu af öfund ofurseldt hann. Og sem hann sat á dómstólnum, sendi hans húsfrú til hans og lét segja honum: haf þú eckért ad gjöra med þann réttláta, þvíad margt hefi eg lidid í dag í draumum fyrir hann. En þeir ædstu prestar og öldúngar rédu fólkinu og eggjudu, ad þad skyldi bidja, ad hann gæfi þeim miklu heldur Barrabam lausann, en Jesúm skyldu þeir deyda. Þá svaradi landsdómarinn Pílatus, og sagdi til þeirra: hvorn af þessum tveimur viljid þér ad eg láti ydur lausann? Þá kalladi upp allur hópurinn og sagdi: tak burt

þennann, og géf oss Barrabam lausann. Þá svaradi aptur Pílatus, kalladi og sagdi til þeirra, og vildi Jesúm lausann láta: hvad viljid þér þá ad eg skuli gjöra vid Jesúm, af hvörjum sagt er, ad hann sé Kristur, kóngur Gydínga? En þeir kolludu þá allir aptur upp og sögdu: krossfestist hann! krossfestu hann! Þá sagdi landsdómarinn enn í þridja sinn til þeirra: hvad íllt hefir þá þessi gjört? aunga daudasök finn eg med honum; fyrir því vil eg hegna honum og láta hann lausann. En þeir kolludu því meir, segjandi: krossfestist hann! krossfestu hann! Og allir kolludu aptur, segjandi: eigi þennann, heldur Barrabam. En Barrabas var einn ræníngi, hvör ed var fyrir upphlaup og mannslag, er skéd var í borginni, innsettur í fángelsi. Og þeir stódu því fastara þará med miklum hljódum, óskandi þad, ad hann yrdi krossfestur, og þeirra hljód og höfudprestanna tóku yfir.

Þá tók Pílatus Jesúm og húdstrýkti hann. En stridsmenn landsdómarans tóku hann, og leiddu hann med sér inní þínghúsid, kolludu saman og söfnudu ad honum öllu lidinu, og afklæddu hann, og færdu hann í eina purpura kápu, og fléttudu eina kórónu af þyrnum, og settu hana á hans höfud og reir í hans hægri hönd, og beygdu kné fyrir

honum, spjødu hann og tóku ad heilsa honum, og søgdu: heill sértu konúngur Gydínga! og gáfu honum pústra og hræktu á hann, tóku reirinn og bordu um hans høfud, féllu á kné og tilbádu hann. Þá geck Pílatus út aptur og sagdi til þeirra: sjáid! eg leidi hann nú út híngad til ydar, svo ad þér vitid, þad eg finn aunga søk med honum. Svo geck Jesús út, berandi þyrnikórónu og purpura-klædid; og hann sagdi til þeirra: sjáid manninn! Þá er kénnimannahøfdíngjarnir og þénararnir sáu hann, kølludu þeir og søgdu: krossfestu! krossfestu! Pílatus sagdi til þeirra: takid þér hann og krossfestid, þvíad eg finn aunga søk med honum. Þá svørudu honum Gydíngar: vér høfum løg, og eptir vorum løgum á hann ad deya, þvíad hann gjørdi sig sjálfann ad Guds syni.

---

Gud rædur, en menninnir þenkja, segir í hinum fornkvedna ordshætti. Hinn alvísi himins og jardar Drottinn auglýsti ad sønnu mátt sinn og speki í því, ad hann gjørdi alla hluti af aungu; en þó má þad sýnast øllu meira, nær hann gjørir hina bestu hluti af hinum verstu. Brædur Jósephs seldu hann í þrældóm Ismaelítum, 1 Mós. 37; þad var íllt verk, en þad sama gjørdi þó Gud honum til uppreistar í Pharaónis húsi, og svo þeim og øllu hysti þeirra til bjargar í húngursneydinni; svo þad er satt, sem Páles segir, ad þeim, sem Gud elska, þeim hjálpi allir hlutir til

hins góda, Róm. 8. Hvørsu ad ógudligir Júdar høndludu med hid saklausa Guds Lamb, Jesúm, þad er kunnugt af því, sem Gudspiallamenninnir hafa ritad eptir sig látid, og er þad ecki hid minsta af því, ad þeir hrøktu hann bundinn frá einum ránglátum dómara til annars, fra kénnivaldinu til Pilatum, frá Pilató til Heródem, og frá Heróde til Pilatum aptur. En þótt ad þetta væri gjört af þeim til hinnar mestu hádúngar, ad hann skyldi ad vidundri verda fyrir øllum mønnum, þá hefir Gud gjört þad hønum til hinnar mestu vegsemdar, svo ad hans blessada saklevsi yrdi hvervetna kunnugt; því eptir allra þeirra ransókn kvadst landsdómarinn aunga daudasøk med hønum finna, ecki heldur Heródes, þótt hann sendi sjálfa þá med hønum til hans; og héradauki hefir Frelsarinn þetta þola viljad sínum børnum til eptirbreytnis, ad þeir ecki skori sig undan ad lída nockud þvílíkt med hønum, þar hann leid allt þetta fyrir þau: ad menn ecki meini, ad sér hæfi ad tala, þar sem hann þegir: ad þrællinn ei skuli gjalda illu íllt, þar sem Herrann lídur saklaus. Þó Drottinn hefdi skipad oss alleina ad lída óréttinn sinna vegna, þá værum vér skyldugir til þess, jafnvelþótt eckért hefdi hann sjálfur þolad; hvad þá miklu heldur, þar hann hefir géfid oss eptirdæmi, ad vér gaungum í hans fótspor, svo sem Pétur vottar, 1 Pét. 2. Eg vil án lengra inngángs af textanum í þetta sinn tvennt hugleida: 1. Hvørnig Heródes og hans hoffólk breytti vid Jesúm; 2. Hvad hann lída mátti í þínghúsinu. Veit þú oss til þessa nád þína, gódi Gud! ad vér þetta svo fáum hugleidt, ad oss ydri synda vorra, er þinn eingétinn Son kvalid hafa. Bænheyr þad fyrir Jesúm Kristum! amen!

---

Fyrst heyrum vér, ad Heródes hafi ordid mjøg gladur vid, er hann sá Jesúm, sokum þess ad hann hafdi heyrt margt af henum. Enginn efi er á því, ad Heródem hefir eitthvad grunad um Drott-

inn, þad hann mundi vera odruvísi enn adrir menn, og þótt þær sögur undarligar, sem af honum bárust, en ecki géfur hann sér stundir til ad ransaka þetta framar. Svo stédur ástundum enn í dag medal syndugra manna; menn vilja ad sönnu heyra Jesúm med því eina eyra, því vér höfum heyrt sagt mikid af honum í hans ordi; en ad ljá honum bædi, þykir oss mikid fyrir. Vér viljum héyra hann segja: Komid blessud, börn míns Födurs! og eignist þad ríkid, sem ydur er fyrirbúid frá upphafi veraldar; en þetta, ad vér skulum taka uppá oss krossinn og fylgja honum eptir, þad vilja menn ecki heyra. Vér viljum heyra af honum ad hann sé kominn í heiminn syndugra menn sáluhólpna ad gjöra; en þetta: Þér kunnid ecki undir eins ad þjona Gudi og Mammóna! þad sturlar hjarta vort. Vér viljum fylgja honum uppá fjallid og sjá teiknin, einsog Heródes, og mettast af braudunum; en þegar menn koma aptur saman i sinni, þad er: í veraldarinnar samkundu, þá þráttar holdid vid hann, og vill ecki trúa, nema þad teikn sjái, einsog Gydíngar gjördu. Hvad veldur þessu? Hinn fagri dans Heródíadis dóttur, hinnar flárádu veraldar, sem manninum kémur til ad hálshöggva Baptistam, svo ad hrópandans rödd í eydimörkinni vekji ecki hinn gamla Adam, sem nú er ad sönnu ellimódur og sysjadur undir heyrn Guds orda, en þó karskur og ern til allra illra verka, og vill ecki heyra ord þess, er sagdi,

ad allt hold sé hey, og allur þess gódi svosem blómstur akursins, Esa. 40; og hennar hofmenn valda því, sem kénna oss ad dára Christum med Heróde og nálægjast hann med vorunum, jafnvel þó hjartad sé lángt þar frá; þessir eru: ágirnd, ofund, losti, agg, reidi, hatur, tvídrægni, hofmódur, sláttskapur, er dagliga þjóna undir hina syndum spiltu náttúru, med fýsn augnanna og drambsomu líferni. Þegar einhver af þessum leikur fyrir oss, þá gleymum vér því fullskjótt, sem vér heyrt hofum af Jesú, og allt þad, sem oss er um hann kénnt, og vér lesid hofum, þad snýst ástundum uppí dáraskap og drottinssvik, þar vorar athafnir sambjóda svo lítt vorri játníngu og vorum skírnar sáttmála, hvar vér afneitudum Djoflinum og ollum hans verkum. Hyggjum ad þessu, kristnir menn! og leitum ecki ad Christó í hans ordi til skémtunar oss, heldur til uppfrædíngar; spyrjum ecki eptir honum í dæmafródum æfintýrum, heldur í heilsusamligum lærdómum; girnumst ecki Jesúm ad sjá í hans ordi med Heróde til forvitnis, heldur med Símeóni til hjálprædis; ecki med Heródis vildarmonnum, er spottudu hann og vildu ei trúa, heldur med Abraham og hans heimafólki, sá ed trúdi Gudi í voninni, þar ed engin var von til, og þad vard honum til réttlætis reiknad. Viljir þú nockud nýstárligt hafa, þá leita ecki eptir nýum kénníngum í heilogu Guds ordi, því þad er alltíd hid sama; heldur leidrétt þinn

lifnad af heyrn Guds orda, því eckert er svo nýtt sem það, ad þú verdir gódur af vondum og þitt hjarta kjötligt af einu steinhjarta, og ad þú íklædist nýum manni, sem eptir Gudi er skapadur, en afleggir hinn gamla, er sig fordjarfar í girndum villudómsins; betra svo þig og þitt framferdi á Guds vegi dag eptir dag, svo hefir þú alltíd eitt ødru nýrra!

Sú var hin ønnur orsøk til kæti Herodis, það hann meinti ad hann mundi sjá eitthvort teikn af honum. Hefdi ecki Gud verid í Christó, þá hefdi það mátt stórum ebla kvøl hans, ad þessi hádfugl skyldi nú hid fyrsta fara ad leita eptir teikni af honum, þar hann hafdi gjørt svo mørg teikn og stórmerki í hans ríki. Þú refur! voru það þackir þær, er þú áttir ad kunna Drottni fyrir allt það gott, er hann hafdi gjørt þegnum þínum? Trúad hefir Heródes því, ad Jesús hafi gjørt krapkaverk, því hann gjerdi sér þánka af þessari orsøk, ad Jóhannes mundi upp aptur risinn vera; samt bidur hann þó um teikn ad nýu. Þessi er illskukraptur Djøfulsins, sem í vantrúnni verkar. Gydíngar átu þau braudin og fiskana, sem Jesús blessadi, og vissu, ad hann var kominn yfirum sjóinn fyrir utan ferju; ei ad sídur søgdu þeir í samkundunni í Kapernaum: Hvada teikn gjørir þú, ad vér sjáum það og trúum þér? Þeir sáu hann reka út Djøful þann, er dumbi var, og óskudu þó teikns af

himni. Kénnimenninnir hofdu spádómana og vissu ritníngarnar, ad ei skyldi veldisspíran takast frá Júda og ecki dómarinn frá Hans fótum, fyrrenn Síló kæmi, og játudu, þegar Síló dæmast átti, ad ecki hæfdi þad, ad þeir dæmdi nockurn; samt hrópudu þeir: Krossfestu hann! krossfestu hann! Og er Djøfullinn alltíd sjálfum sér líkur ennþá í dag; því hvad gjøra þeir, sem heyra Guds góda ord, og annadhvort trúa því ecki, edur lifa svosem þar væri ecki eitt ord satt í; og svosem Isaak þóktist vita, ad þad væri rødd Jakobs, sem hjá honum var, en hann þenkti skinnin væri hønd hins frumgétna sonar síns Esaú, svo látast menn ad sønnu þeckja raust Drottins, en bera sínar athafnir lítt saman vid þad hann býdur; og sumir eru eins heimskir og Júdar, ad þeir spyrja eptir kraptaverkum; en þeim byrjar ad vísa til Móísen og spámannanna, svosem Abraham gjørdi hinum ríka, Lúk. 16. Þú girnist kraptaverk; en kraptaverkin voru gjørd fyrir vantrúarinnar sakir; viljir þú ecki trúa, nema þú sjáir teikn og stórmerki, þá játar þú á þig vantrúarinnar villu, og sver þig í hennar barna tølu. Gydíngar søgdu á Christí tímum: Hefdum vér lifad á døgum fedra vorra, þá vildum vér ecki hafa aflífad spámennina; Gydíngar vildu þó ecki trúa Jóhanni, sem var meiri enn nockur spámadur, edur Christó, um hvern allir spámenn vitnudu, og þeir óskudu eptir teikni af honum, til ad styrkja þann myndugleika, er hann hafdi til ad

kénna, straffa, ógna og áminna. Hvert vill þetta áfram umsídir? Vér lifum og á þessum dogum; vér þenkjum kannské sumir: hefda eg verid samtída Jesú, eg vildi ecki hafa svikid hann med Júda, ecki áklagad hann med kénnimonnunum, né gabbad hann med Heródе: eg vildi hafa vitàd, hvad eg hefdi gjort, og borid ritníngarnar saman vid allt þad, er fram vid hann kom. En samt lifa sumir menn, tala og gjora, ad svo miklu leiti sem í þeirra valdi stendur, einsog hinir, jafnvel þótt kénníngarnar um Jesúm séu á vorum dogum ennþá ljósari heldurenn spádómarnir, sem af honum voru í gamla testamentinu, og uppfylla þannig mælíng þeirra, sem fyrir þá voru, svo menn sjá, ad þetta hórunarslekti er ennþá ecki oldúngis útaf daudt; er eg því hræddur um, þeim muni eckért annad teikn géfast enn teikn Jóne spámanns, þvíad Níníve borgarmenn gjordu ydran vid prédikun Jóne; en Jesús Christus, sá ad er einn og hinn sami í gær og í dag í sínum kénníngum, allt frá því hann hóf ad láta prédika ydran og syndanna fyrirgéfníngu í sínu nafni: hann finnur svo lítid af trúnni edur hennar ávoxtum í sumra manna fari, jafnvel þótt hann einusinni sagt hafi: Sælir eru þeir, sém ecki sjá og trúa þó. Villtu sjá Kristum, þá lít hann med trúarinnar augum; svo gjordu morg þúsund heilagra manna, sem hans vitnisburd hafa med sínu egin blódi undirskrifad. Villtu heyra nockud af honum,

þá spyr hann ecki svosem Heródes, heldur svosem hans lærisveinn; hann mun svara þér: Sælir eru þeir, sem heyra Guds ord og vardveita þau, Lúk. 11. Villtu vita af honum hvad þú skalt gjöra, þá adspyr hans munn; hann mun svara þér: Leita fyrst Gud ríkis og hans réttlætis, þá mun þér allt annad gott tilleggjast; afneita svo sjálfum þér, og tak þinn kross uppá þig og fylg mér eptir! Villtu vita hvad þú skalt trúa, þá heyr hann til þín talanda: Pad er hid eylífa líf, ad þeir þecki þig sannann Gud ad vera, þad er: Fodurinn, og þann þú útsendir Jesúm Kristum, Jóh. 17. Þá þú stendur undir hans krossi, mun hann segja: Eg skal aldrei sleppa þér og aldrei yfirgéfa þig. Þá þú ert freistadur, mun hann hugga þig og svara: Eg em freistadur á allann hátt, líka sem þú, þó án syndar, því kann eg og vil hjálpa þeim, sem freistadir eru. Þu berst vid daudann og gétur ecki lengur adspurt, heldur andvarpar med hjartanu: þá mun hans miskunar-eyra hvad best heyra, því Brunnur Gæskunnar veit, ad þà er ecki tími til ad draga hjálpina undan lengur, svo hann mun svara: Kom þú blessadur, barn míns Fodurs, og eignast þad ríkid, sem þér er tilbúid frá upphafi veraldar. Spyr þinn Jesúm þannig, en ecki einsog Heródes, og mun hann ecki vid þér þegja.

En hvad gjörir Heródes nú framar? Sagan segir, ad hann hafi gabbad hann med sínu hoffólki, og fært hann í hvítt klædi; textinn kvedur þar svo

að, að hann hafi ekkért úr honum gjørt. O! hvílík vanvirða er þetta, að hann, sem er allt í øllu, Kól. 3, hann verður að engu hafður, fyrir hvørs náð vér erum það, vér erum, 1 Kor. 15; hann reiknast svosem hann væri ekki; hann, sem allt hefir af engu gjørt, og allt kann aptur að engu að gjøra, hann er einkis metinn. Þetta er nú það lausnargjald, minn Herra! sem vér dagliga erum að syndga uppá, þegar vér forsmáum hvor annann, og með késkni og háði meiðum sæmd annarra. Allt er þetta fyrir vorar sakir skéð, vor ekki síst, sem af heiðíngjanna børnum erum Guðs børn orðnir, og vorum hjá útvalníngunni, það er: Guðs fólki, fyrir ekkért reiknaðir; þessvegna er Mannsins Sonur einkis virdtur, Mark. 9; allir þeir eð hann sáu hæddu-hann, Ps. 22. Spekin má réttlætast hér af sonum sínum, svo hann yrði oss að speki Guðs, oss, sem heimskari vorum enn asninn og nautið, er þekkja jøtu síns herra, Esa. 1, já argari enn hestar og múlar, er menn verða bitil og beisl í munn að leggja; og ofaná allt þetta færa þeir hann í hvítt klæði. Hvílík er smán þessi! Rómverjar høfðu þann sið, að þeir, sem eptir nafnbótum sóktu, þeir bjuggu sig hvítum stakki til að birta þar með hreinlyndi sitt og góðann þokka til þjóðar sinnar; en af því að Gyðíngar kærðu það til Drottins, að hann hefði sér konúngs nafn géfið, þá er hann klæddur hvítum búníngi. En þó að guðlausir menn gjørðu allt þetta til mínkunar

honum, þá má þó hér með teiknast hans eylífa kongúngs tign, því að í þessu hvíta klæði hefir hann brotið sig til ríkis yfir Zíon, yfir Guðs heilaga fjalli, sem er hans kristni, hvert aldrei mun enda taka. Hvítur var skrúði hins ypparsta kennimanns á dögum gamla testamentisins; þessum vildi Drottinn klæðast, þá hann offraði Guði sjálfum sér til eins sætleikans ylms, Eph. 5, fyrir vorar syndir, að hann syndi það, að hann væri einn heilagur biskup og án flekks og fráskilinn syndurunum, og afrekaði sér þarmeð eina flekklausa brúði, sem engann flekk né hrukku hefði; já, hann klæddist hvítum búníngi, svo, hann útvegaði oss það rétta brúðkaups klæði, Matth. 22, og einn hvítann skrúða með pálmaviðum í höndum vorum. Þessi er sá skrúðinn og það skart, er hans brúður hrósar sér af, hjá Esa. 61, segjandi: Eg fagna mikiliga í Drottni, og mín önd gleðst í mínum Guði, því hann hefir fært mig í hjálpræðisins fat; réttlætisins kirtli hefir hann mig ífært, svosem einn brúðguma í kennimannligum skrúða, og svo sem eina brúður, er býst um í skarti sínu. Hvað skal eg nú hér til segja, minn Herra Jesú! Skylda eg nú reikna mér það vanvirðu, fyrir þíns nafns sakir að líða nockuð af því, sem þú hefir miklu meira liðið minna vegna? Nei! sæmd er það, en engin vanæra; það hefir Móses kennt oss með sínu dæmi, að vitni Sti Páls, Hebr. 11, er hann segir, að hann haldið hafi brixli Krists fyrir

meiri audlegd, enn fésjódu Egyptskra manna, v. 26. Þad er nærsta glédiligt ad hugsa, ad allt þad, sem fyrir Adams synd var í sjálfu sér minkun hin mesta, þad er alltsaman í Jesú heidurligt ordid øllum þeim, sem hann elska og honum vilja eptirfylgja; hina verstu hluti hefir hann gjørt ad þeim bestu, hina audvirdiligustu ad þeim kostuligustu, hina vesælustu ad þeim farsælustu; stallinn gjerdi hann virdugligann í sinni fædíngu, sína voggu í reifunum; vøtnin blessadi hann í skírn sinni; allt hvad hann snertir, þad er hans børnum blessad: bøndin í sinni herleidíngu, svipur bødlanna í sinni húdstroku, krossins gálga í sínu lífláti, og sjálfa smánina og fyrirlitnínguna hefir hann gjørt ad dýrd og heidri; svo eg segi enn nú, sem til forna, ad ef þad er hin ædsta vegsemd Jesú ad líkjast, þá er þad engin vanæra af heiminum fyrirlitinn ad vera, fyrst Jesús er ádur fyrirlitinn; honum sé dýrd og heidur um aldir! amen!

Nú viljum vér gánga med vorum Lausnara frá Heróde til Pílatum, og sjá hvad þar gjerdist oss til huggunar og syndabótar. Þá tók Pílatus Jesúm og húdstrýkti hann, segir textinn. Þad var ecki venja Gydínga ad húdstrýkja nockurn ádur enn hann líflátinn var; Rómverjar létu ad sønnu húdstrýkta menn afhøfda; en þau dæmi vita menn ecki, ad nockur illrædismadur hafi svo glæpafullur gefist, ad hann hafi húdstrýktur verid undir krossfestíngu.

Jesús einn, sem var hinn allra saklausasti, hann fær ei þá vægd ad deya svosem hinn ránglátasti. Konúngur Gydínga verdur af lífi tekinn, verr enn einn heidíngi. Hann, sem miskunar sig yfir öll sín handaverk, hann fær enga miskun af syndurunum á þeim degi, er hann hid mesta miskunarverk gjördi á syndugum manni. Guds lögmál var svo vægdarsamt, ad ei mátti slá nockurn meir enn 40 högg, 5 Mós. 25; hvílíkt er þá lagabrot þetta, ad hann má ei sömu laga njóta, sem lögin skipad hafdi. Pílatus hafdi ecki í sinni ad láta hann krossfesta, heldur ad fullnægja Gydíngum med refsíngu þessari, er því líkligt, ad hún hafi svo grimm verid, ad Landsdómaranum sýnst hafi, ad enginn fjandmadur mundi æskja meiri hefndar yfir óvin sínum, og í þeirri meiníngu lét hann Jesúm útgánga, berandi eitt purpuraklæda og eina kórónu af þirnum, og sagdi: Sjáid manninn! Hvarfyrir, minn Jesú! hvarfyrir ertu svo hörmuliga útleikinn? Af því ad margar voru húdstrokur syndarans. Allt mannkyn hafdi erjad vondskuna, og uppskorid bölvanina; þarfyrir hafa plógmenninnir erjad á þínum hrygg, Drottinn! Ps. 129. Húdstrokur voru þrælastraff í gamla daga, og mjög smánarligt haldid, því var ecki leyfiligt ad húdstrykja Rómverskann borgara, Post. 22. Slíka þjóns mynd hefir Drottinn himins og jardar á sig tekid fyrir einn vondann þjón, ad hann hefir, svosem einn þræll, látid sinn nakinn líkama svipum

lemja. Því er þinn brúdgumi svo útleikinn, kristin sála? hvor hefir hann flett sínum klædum? Þitt fatleysi. Hvor hefir bundid hans hendur? Þitt handædi. Hvör hefir reyrt fætur hans vid kagann? Þinna fóta símleiki. Hvarfyrir er það musterid, sem öll fylling guddómsins í býggir, svo nidurbrotid med svipum bödlanna? Þessvegna, ad í þér, það er: í þínu holdi, bjó eckért gott, heldur léztu syndina drottna í þínum daudligum líkama, lédir limu þína henni til íbúdar frá einni ránglætíngu til annarar. Mikkol, dóttir Sáls konúngs sá út af vindauga sínu og hæddi konúng Davíd, þared hann dansadi afklæddur fyrir verk Drottins, 2 Sam. 6; en Zíons dóttir, hverja Jesús, sonur Davíds, hafdi trúlofad sér í nád og miskun sinni, hún afklæddi sjálf Herra sinn med hendum ómildra manna, og lét hann afhýda. Hvad var þér, ó, Ísrael? Hefir Andskotinn blindad þig á bádum augum, ad þú þecktir ecki þinn vitjunar tíma? Var þér það oflítid, ad Gud er þinna vegna madur ordinn, það þú lézt honum úthýsa? Er það oflítid, ad honum úthýst er, það þú lézt hann ofsækja? Er það oflítid, ad hann ofsóktur er, það þú lézt hann fánga og binda? Er það oflítid, ad hann fánginn og bundinn er, það þú spottadir hann og lézt í hans andlit hrækja? Er það oflítid, ad hann svo spottadur er, það þú lézt hann kinnhestum ljósta? Er það oflítid, það hann kinnhestum lostinn er, það þú lézt hann afklæda og húdstrýkja? Er það oflít-

id, það hann húðstrýktur er, að þú settir kórónu af þirnum á höfuð honum, og fékst reyrlegg í hans hægri hönd? O, Ísrael! mig skal ei furða, þótt að Guðs reidi hafi brunnið yfir þér allt til neðsta helvítis, og Jesú blóð sé yfir þig og þín born komið. Hvor hann heyrir þetta dæmi, hann hyggi þar að, og forherði ekki sitt hjarta, svo Kristur verði ekki að nýu krossfestur ámeðal vor! Pínar húðstrokur voru margar, barn mitt! því þú ert einn syndari, og eptir máta syndarinnar skal vera mæling refsíngarinnar, segir Drottinn í lögmálinu, 5 Mós. 25, og þará ofan hafðir þú forþénað að slengjast eylífliga með Guðs eldligum reiðisvipum í helvíti; en þinn brúðgumi er fyrir þig svosem þræll húðstrýktur, ámóti hverjum þú misgjörðir; hann er þrælkaður í þínum syndum, og þú hefir honum erfiði aukið með þínum ránglætíngum, Esa. 34. Þú varst frá hvirfli og allt til ylja ekkért, nema sár, kaun, benjar og þroti, Esa. 1; en hans blessaður líkami er svo af ógudligra manna svipum ísundur slitinn, að frá hvirfli og allt til ylja var þar ei heilt á hans holdi; þarfyrir er það skéð að svo margt ben, sem þar var á hans líkama, svo margar og þúsundsinnum fleiri affsakanir hefir þú í himninum fyrir Guði, og hans blóð lætur hærra í eyrum þess himneska Kongúngs þér til syndalausnar, enn blóð Abels réttláta yfir Kain honum til fordæmíngar.

Í annann máta stendur í textanum, að þeir hafi

fært vorn Herra í eitt purpura klædi; án efa eptir plagsid Rómverja, er þannig klæddu höfdíngja sína, nær þeir tóku keisara veldi. Drottinn afklæddist sínu eigin fati, kristinn madur! og tók uppá sig heidíngjanna búníng, ad hann þarmed audsýndi, ad fyrir þessar og adrar hádúngar, af heidíngjum í frammi hafdar, þá vildi hann láta heidna menn íklædast Chrístó, hverjum hans eigid fólk afklæddi sig, og færdu sig og sína eptirkomendur í þá ólucku, ad fyrst þeir hofnudu Guds ríki, þá vard þad frá þeim tekid og heidíngjum gefid, Post. 13. Purpurinn var í orma blódi litadur; en þad má um Drottinn segja, ad hann hafi møttul sinn í orma blódi litad, þar hann er madkur og ecki madur ordinn, og í þeim rauda eyrormi fyrirmyndadur, sem Móses uppheingdi í eydimerku, til lækníngar þeim, sem af orminum bitnir voru. Ecki er þad um skør fram, ad Kristur er á sínum pínudegi í eitt purpuraraudt klædi færdur; því undir þessu fati hefir hann hulid vorar syndir, sem eru raudar sem purpuri. Í 4 Mósis bókar 4 kap. var Ísraels sonum bodid, ad nær þeir fluttu herbúdirnar, skyldu þeir yfirklæda gullaltarid med raudum purpura. Jesús er þad sanna gullaltari, kristnir menn! hann er hér med purpuraklædi sveipadur; legg hér uppá þitt offur, þad eru þínar gudrækiligar bænir, hann mun þær upptendra med eldi síns Anda, svo þær uppstígi fyrir Gud í himininn til eins sætleiks ylms. Minn Herra Jesú! þessar hádúngar

hafa afrekad ofs eylífa vegsemd; þetta spottliga klædi hefir hulid fatleysi vorrar blygdunar; þessi hin konúngliga ásýnd hefir gjørt ofs ad konúngum og kénnimønnum. Hversu ertu lítils verdur í augum þinna kvalara? en hvad fridur ertu í augum þinna sorgmæddra brædra, sem láta sér þad til hjarta gánga, ad þeirra blódugar hendur hafa þinn mislita kirtil rjódrad, og eitt óargadýr, sem eru syndir þeirra, þær hafa þann himneska Jóseph ífundur rifid; þér sé lof, heidur og vegsemd ad eylífu! amen.

Í þridja máta gétur textinn um, ad þeir hafi fléttad kórónu af þirnum og sett á hans høfud. Allt er þetta eptir heidíngja vísu, því Rómverjar plegudu ad brúka kransa af grøsum, blómstrum og greinum eikanna, sérdeilis tignarmenn. En hvílík er nú kórónu þessi? Af þirnum var hún fléttud, segir textinn. Adam leiddi þá bølvan yfir jørdina, ad hún skyldi þirna og þistla bera, 1 Mós. 3. Adams guldu allir hans nidjar eptir hann, allt til þessa dags. Adams skømm og syndastraff má bera hinn annar Adam, sem er Drottinn af himni, svo Adams bølvan skyldi ecki stínga øll Adams børn eylífliga. Med þessari sinni þirnikórónu hefir Guds eingétinn Sonur útvegad ofs kórónu lífsins, Opinb. 2, kórónu réttlætisins, 2 Tím. 4, kórónu dýrdarinnar, 1 Pét. 5, kórónu miskunarinnar, Ps. 103, og kórónu eylífs fridar og fagnadar á landi lifandi manna.

Salómon segir, ad vegur hins lata sé eins og þirnigardur, Ordskv. 15; þad fékk Kristur ad finna, sem vorrar heimsku vegna hefir gengid þessa þirnigötu. Sorg og audæfum þessa heims, girndum og vellystíngum líkir Kristur vid þirna, Matth. 13; fyrir þessara þirna sakir verdur Jesús hér þirnum krýndur. Ein góð eiginkvinna er síns ektamanns hofudkóróna; en hvad sýnist þér, dótturin Zíon? hlýtur ecki Meistari þíns úngdóms ad bera hér þína mínkun á hofdi sínu? Hvad sárt hefir þad stúngid þinn Elskuga, sem þú hefir ástundum kærast allra hluta? Þad sem þú elskar þráliga meir enn lífid, þad hefir kvalid hans hofud allt til daudans. Gángid út, þér dætur Zíons! segir í Lofkvædinu, og skodid Salómon konúng med þeirri kórónu, sem módir hans kórónadi hann med á degi sinnar trúlofunar! Lofkv. 5. En eg vil segja til ydar: gángid út um stundar sakir, kristnir menn! frá vondri vereldu þessari og hennar lauslætis glaumi, og skodid þann eylífa Fridarhofdíngja, beranda þá kórónu, sem hans brúdur hafdi fléttad honum á þeim stránga degi, þegar hann drack sitt brúdkaup til hennar, sem hans hjarta elskadi, í síns himneska Fodurs beiskum reidikaleik. Þanninn géck Jesús út, segja Gudspjallamenninnir, berandi eina purpurakápu og eina þirnikórónu, og Pílatus sagdi: Sjáid manninn! Herra Gud! eg vil fara og skoda sýn þessa hina miklu, sagdi Móses fordum, 2 Mós. 3,

þar runnurinn logadi, en brann þó ecki; en miklu er sýn þessi furdanligri, þar Jesú þirnibuskur logadi af Guds grimdarreidi, sem allrar veraldarinnar syndir hefdu tilunnid, en gat þó ecki uppþurkad þann sterka guddóms krapt, sem í honum bjó. Minn Herra Jesú! þegar eg ligg daudsjúkur í bondum synda minna, og get mér eckért lid veitt, þá vil eg þó skrída nær, ef eg má, vesöl manneskja, og sjá þessa miklu sýn, þar allur Mannsins Sonar líkami og sál kvelst í þessum loga: hofudid píniſt med þirnunum, andlitid verdur hnefum slegid og med hrákum afmýndad, allur líkaminn er svipum laminn, og med hræsnisfullri lotníngu spottadur, hans hendur bondum reyrdar, og hans fætur skjálfa af vanmætti; þetta einasta, og ecki annad, kann mér daudvona manneskju ad bjarga, því eg veit, ad þar syndarinn hafdi med ollum limunum illa breytt, þá hefir Skaparinn á ollum líkamans portum allt íllt þolad.

Framar stendur í textanum, ad þeir hafi látid reyrlegg í hans hægri hond, fallid á kné, spottad hann, og sagt: Heill vertu konúngur Gydínga! Hvad vantar nú Krist Drottins hér á fulla konúngs tign? Med oleó var hann smurdur, þar hann allur lagadi í sínu heilaga og saklausa blódi; purpuraskrúdann hafdi hann uppá tekid; þirnikórónuna bar hann á hofdi sér; og svo ad eckért vanti til hinnar mestu hádúngar, og hvad skuli odru sambjóda, þá géfa þeir honum einn reyr-

staf í hondina fyrir veldisspíru. Minn Herra Jesú! hvar var nú þad oleum fagnadarins, sem Gud, þinn Gud, hafdi smurt þinn manndóm med? Hvad ólíkur er þessi búníngur þeim klædafaldi, sem uppfyllir þá himnesku Jerúsalem? Esa. 6. Hvar er nú sú prýdin þíns hofuds, hvorja englarnir og hofudenglarnir tilbidja? Hvar er sú sterka járnspíran, med hvorri þú sundurbrýtur heidíngjana, einsog annad leyrkér? Ps. 2. Skrifad er, ad í nafni Jesú skuli oll kné sig beygja, bædi á himnum og á jordunni, Phill. 2; en hvorju gégnir þetta, ad jordin gétur þad stadist, ad ógudligir þrælar þad gjordu til spotts og hádúngar, sem oll veroldin er skyld ad gjora til vegsemdar? En, hvad vil eg hér um annad framar tala, enn ad heimfæra þetta, svovel sem allt þad, er Drottinn leid syndugum manni til nota. Endurlausnarinn segir um Jóhannem Baptistam, ad hann sé ecki líkur reyr þeim, sem af vindi er skékinn; teiknandi þarmed hans stodugleika í lærdóminum, í trúnni, í þolinmædinni, í kærleikanum, í vandlætinu. Gud nádi oss syndugar manneskjur! Hvad fáa sína líka hefir Jóhannes af ollum tilheyrendum sínum, sem eru allir kristnir menn? Hvad lítid mótkast skélfir trú vora? Hvad lítill krossins þytur hrystir vora þolinmædi? Hvad lítil mótgjerd útslockur hjá oss kærleikann? Hvad litid súrdeig spillir fyrir oss lærdóminum og gódum sidum? Hvad litill á-austur kéfur nidur vort vandlæti? svo vér megum medkénna, ad vér

í öllu þessu erum ecki sterkari, enn hinn brotni reyrsproti af Egyptalandi, við hvorn ef nockur styður sig, þá gengur hann í hönd honum og stýngur hana ígégnum. En Jesús hefir sett andlit sitt svo stöðugt sem einn tinnustein, og svo sem einn klett fyrir reyrslögunum, og hefir þó hvorki kallað né hrópað, og hans raust hefir ecki heyrst á strætunum; þarfyrir mun hann ei heldur hinn brákaða reyr í sundurbrjóta, eður þann líttloganda hörkveik útslöckva, Esa. 42. O, Herra Jesú Christe! eg hugsa til þess kalda dags, þegar reyrslaki vors líkama tekur til að skékjast af dauðans andviðri; mynnstu þá, ó, Herra! á þessi þín reyrslög og alla aðra kvöl og þjáníngu, er þú þolað hefir vor vegna, og lát þá ecki hinn brákaða reyr vorrar trúar sundurbrotna, né hinn líttloganda hörkveik vonarinnar útaf slöckna, svoað, nær vér stignir erum af hrósi þessarar vesælu tjaldbúðar á land lifandi manna, þá mættum vér heilsa þér, Konúngi dýrðarinnar, með kossi vors munns og eylífri lofgjörð. Bænheyr það, Herra! fyrir þína forþénustu! amen!

---

# Fimta Midvikudags Prédikun í Föstu.

Þá Pilatus heyrdi þad ord, óttadist hann enn meir, og géck aptur í þínghúsid, og sagdi til Jesúm: hvadan ertu? En Jesús gaf honum eckért svar. Þá sagdi Pilatus til hans: talar þú eigi vid mig? veitstu ecki, ad eg hefi rád til ad krossfesta þig, og eg hefi rád til ad géfa þig lausann? Jesús svaradi: eigi hefdir þú nockud vald yfir mér, nema þér væri géfid þad hér ad ofan; fyrir því hefir sá meiri synd, er mig ofurseldi þér. Og eptir þad leitadi Pilatus vid, hvornimm hann gæti látid hann lausann En Gydíngar hrópudu og sögdu: ef þú lætur þennann lausann, þá ertu ecki keisarans vinur, þvíad hvor, sem sig gjorir ad konúngi, hann er ámóti keisaranum. Þá Pilatus heyrdi þad ord, leiddi hann Jésúm út, og setti sig á domstólinn í þeim stad, sem kallast: hinn steinlagdi, en á Ebresku: Gabbatha; en þad var affángadagur páska, nærri sjottu stundu. Þá segir hann og til Gydinga: sjáid! þad er ydar kóngur! En þeir kolludu: burt, burt med hann! krossfestú hann! Pilatus sagdi til þeirra: skal eg

krossfesta ydar konúng? Kénnimannahofdíngjarnir svorudu: aungann konúng hofum vær nema keisarann.

Þá er Pilatus sá þad hann kom aungu til vegar, heldur þad, ad þar yrdi enn meira upphlaup af, tók hann vatn, og þvodi hendurnar fyrir fólkinu, og sagdi: saklaus em eg af blódi þess hins Réttláta, sjáid þér til! Þá svaradi allur lýdur, og sagdi: hans blód komi yfir oss og yfir born vor. En Pilatus þeinkti fólkinu fullnægju ad gjøra, og dæmdi ad ské skyldi þeirra beidni, gaf þeim Barrabam lausann, þann er inn var settur fyrir upphlaup og manndráp í myrkvastofu, um hvørn þeir bádu; en Jesúm, húdstrýktann, framseldi hann þeim eptir þeirra vilja, ad hann krossfestur yrdi.

Þá tóku þeir Jesúm, eptir þad þeir hofdu spottad hann, færdu hann úr purpurakápunni, og færdu hann í sín eigin klædi, og leiddu hann út, ad þeir krossfestu hann; og hann bar sinn kross og geck út. En í því þeir gengu og leiddu hann út, fundu þeir einn mann, sem fram hjá geck, af Cyrene, Símónem ad nafni, hvor ed kominn var af akri, fødur þeirra Alexandri og Rúffi; hann hondludu þeir, og þreyngdu honum ad hann bæri hans kross, og logdu krossinn uppá hann, ad hann bæri hann eptir Jesú.

En honum fylgdi eptir mikill fjøldi fólks og kvenna, hvorjar ed grétu og hörmudu hann. En Jesús snériſt til þeirra og ſagdi: þér dætur af Jerúſalem! grátid ecki yfir mér, heldur grátid yfir ydur ſjálfum og yfir børnum ydar, því ſjáid: þeir dagar munu koma, á hvorjum þeir ſegja: ſælar eru óbyrjur, og þeir kvidir, er ei hafa fædt, og þau brjóſt, hvor eigi voru mylkt! þá munu þeir taka ad ſegja fjøllunum: hrynjid yfir oſs! og hálſunum: hyljid oſs! Ef þeir gjøra þetta vid blómgada tréd, hvad mun þá ſké vid hid þurra? En tveir ſpillvirkjar adrir leidduſt og út, ad þeir væri afteknir med honum. Og þeir leiddu hann út í þann ſtad, ſem kallaſt á Ebreſku: Golgatha, hvad ed þýdiſt: Hauſaſkélja-ſtadur; og þeir gáfu honum ad drecka í víni myrru og edik galli blandad; og hann tók þad eigi til ſín, því þá hann ſmackadi þad, vildi hann ecki drecka. Og ſem þeir komu í þann ſtad, ſem kalladiſt Høfudſkélja ſtadur, þar kroſsfeſtu þeir hann, og med honum tvo adra ræníngja á bádar ſídur, einn til hægri handar og annann til hinnar vinſtri, en Jeſúm í midid. En þad var nær um þridju ſtund, er þeir kroſs-feſtu hann; þá vard ſú ritning uppfyld, ſem ſegir: Medur illvirkjum er hann reiknadur. En Jeſús ſagdi: Fadir! fyrirgéf þeim,

þvíad þeir vita ei hvad þeir gjøra! Pílatus skrifadi þá eina yfirskrift, og setti hana uppyfir krossinn; uppyfir hans hofdi settu þeir hans daudasøk. En yfirskriftin, og hvør søk honum var géfin, var ritud yfir honum med grisk- um, Latínskum og Ebreskum bókstøfum: þessi er Jesús af Nazareth, kon- úngur Gydínga. Þessa yfirskrift lásu margir af Gydíngum, þvíad sá stadur var nærri borginni þar Jesús var krossfestur. Þá søgdu þeir ædstu prestar Gydínganna vid Pílatum: skrifa þú eigi: konúngur Gyd- ínga, heldur, þad hann hafi sagt: eg em konúngur Gydínga. Pílatus svaradi: hvad eg skrifadi, þad hefi eg skrifad.

---

Svosem einum má virdast ad gánga einn tor- færann veg, svo vidurlita mikid þykir mér, aumum manni, Jesú blódferil í hans krossgaungu med ordum ad rekja, ecki einúngis þess vegna, ad eg veit ad mínar syndugar hendur hafa þá gøtuna lagt, hvørrar klúngur ad hefir stúngid hans fætur, heldur og þess annars, ad syndum spillta náttúru hryllir vid þar eptir ad gánga, en veit þó, ad eg ecki sæ inngengid í hans dýrd, nema eg ádur fylgi honum í hans hørmúngu. Eg sé ad sonnu dyrnar, ígégnum hvørjar oss byrjar inn ad gánga í saudahúsid; en þad fælir mig, ad vegurinn þángad er allur blódi stocktur. Eg vil ad sonnu bera mig ad fylgja Christó inní biskupshøllina; en ad játa því, ad eg sé hans lærisveinn med samarligri kross- gaungu, þad veitir holdi minu og blódi nærsta tregt.

Vær høfum ad sønnu lagt hønum uppá þá þúngu krossins byrdi; en sjálfir viljum vér ecki snerta hana med einum fíngri, ef vér megum hjá því komast. Vér viljum allir inngánga til hans hvíldar, og sjáum ad landid er gott; en hinn gamli Adam vill ecki berjast vid Kanaan. Vér viljum þó, í Drottins nafni, gánga nockud nær, og sjá hér einn heilagann og réttlátann mann, í hvørs munni engin svik eru fundin; hann viljum vér sjá einsog saud til slátrunar leiddann, Esa. 53; þad saklausa Guds lamb, sem ber hér allar veraldarinnar syndir á sínum ørþjáda likama; já, einn Gud og mann, ecki mann, heldur madk ordinn, og hann, sem géck umkríng, gjørdi gott og græddi alla, af øllum illa útleikinn, án allrar vægdar, fyrir utan orsøk alla; svoad, ef nockur þykist í heiminum órétt lída, og verr vera vid sig høndlád, heldurenn hans sakleysi skilid ætti, þá skuli hann sjá hér eitt lifandi dæmi sannrar hógværdar og þolinmædi, og þeinkja med sér, ad ef þad er hin stærsta vegsemd Guds Syni sem líkastur ad vera, þá sé þad engin óvirdíng hans kross eptir hønum ad bera í þolinmódu umburdarlyndi óforþéntra meingjørda. Og vil eg svo af þessari grein píslarsøgu Drottins vors tvennt hugleida, sem er: 1. Hans útgaungu af Jerúsalem úr þínghúsinu. 2. Hvørnig med hann høndlad var í aftøkustadnum. Hjálpa oss hértil, Drottinn! med nád þíns Anda, í Jesú nafni, amen.

---

Um útgaungu Lausnarans talar svo textinn: Þá tóku strídsmenninnir Jesúm, eptir þad þeir hofdu spottad hann, og færdu hann úr kápunni, og færdu hann aptur í sín eigin klædi, og leiddu hann út, svo hann krossfestur yrdi, og hann bar sinn kross. Segid mér, born mín! hvad skyldi Jesús eptir í þínghusinu? Blódlækina, sem dundu af hans

blessudum líkama, herundid, þad er med svipunum var afstrokid, hárid, sem af þyrnibroddunum var burtslitid. Hvad færir hann med sér þadan? Einn blódrisa líkama, hrákana í andliti sínu, þyrnikórónu á hofdi sér, og krossinn á herdunum; eptir sér hina ógudligu Gydínga, undan sér einn stadarins þræl, sem úthropad hefir sokina hans dauda ad venju, og íkríngum sig flock heidíngjanna. Ólík er nú þessi útgánga hans vegsamligri innreid fyrir átta degum; þá reid hann svo sem einn konúngur; hér er hann áfram drifinn svosem einn illrædismadur; þar breiddi fólkid sín klædi á veginn; hér slíta þeir purpura-slíkina frá hans alblódugum líkama; þar hjuggu þeir kvistu af trjánum og dreifdu þeim á gotuna; hér er þad sanna lífsins tré dregid um grýttann veg; þar fylgdu honum hans elskuligir lærisveinar; hér fylgja honum tveir ófrægir ræníngjar; þar hrópudu þeir: Hósíanna Syni Davids! blessadur sé sá, sem kémur í nafni Drottins! hér hrópa þeir: Krossfestu hann! þá reid hann inn til musterisins og vandlætti vegna Guds húss vid þá, er þad vanhelgudu; hér er hann rekinn út til Golgatha, og vandlæting hans Fødurs húss hefir uppetid hann. Herra Gud! er ecki þetta hann, sem leiddi fedur þeirra út af Egyptalandi, berandi gull og silfur Egyptskra manna? Davíd segir, ad í þeirra útfor hafi sjórinn hlaupid til baka og Jórdan horfad aptur á bak, Ps. 114; en hér umkríngja Belíals beckir hann, og hann

er útheltur sem annad vatn, Ps. 22. Hvad var þér sjór, segir David, ad þú hljópst svo til baka, og þér Jórdan, ad þú horfadir svo á bak aptur, og ydur fjell, ad þér stuckud upp sem saudir, og ydur hálsar, ad þér svo donsudud? En eg mætti vel segja: hvad var þér sól, ad þú skyldir horfa á líkfor hins lifanda Guds í mannligu holdi, og þér Golgatha, ad þú kynnir ad ljá þig til svoddan óhæfu, og þér jord, ad þú skyldir standast undir svoddan þúnga, og ydur hálsarnir, ad þér gátud þad lidid, ad hann færi titrandi og skjálfandi um ydar gotur, sem ydur vegur á vigt og jardarinnar þúnga med sínum litla fíngri? Og hann bar sinn kross, segir textinn. Esajas í 9 kap. þegar hann spáir um Krist, þá segir hann ámedal annars, ad hans hofdíngjadómur sé á hans herdum, og ad hann muni margfalda sitt ríki; hvort Esajas hefir hér med meint krosstré Drottins, sem á hans blessudum herdum lá, edur ei, þad kann eg ecki fyrir víst ad segja; hitt veit eg, ad þar sem veraldar hofdíngjar auka ríki sitt med holdligum armi og hinni miklu makt sinni, þá hefir Kristur sitt ríki aukid alleinasta fyrir þad ordid af krossinum, og fyrir hormúngar og forsmánir, sem hans elskendur hafa lidid í hans nafni, svo þad er svo megtugt ordid, ad þad hefir jafnvel hin stærstu hofdíngjadæmi innttekid. Þeir orgustu skálkar voru í gamla daga krossberendur nefndir, af því ad þetta straff var svo smánarligt, og þeir sjálfir báru sinn kross til af-

tekustadarins; en nú er Drottins krossberenda nafn heidarligt ordid ámedal allra þeirra, sem Kristum medkénna, svo ad einnig óvinir krossins Kristí, þeir skyrrast vid ad tala mjøg illa þarum, jafnvel þótt þeir skori sig undan hans ok ad bera. Héraf sé eg, ad Christí ríki er ecki af þessum heimi, og þad, sem veikt er fyrir heiminum, þad hefir Gud útvalid, ad hann til skammar gjørdi hid øfluga, og þad foraktanligt og ótigid er fyrir heiminum, og þad sem eckért er, ad hann afmái þad sem nockurt er, uppá þad ad eckért hold hrósi sér fyrir honum. J 3 Mós. 11 er ad lesa, ad hann, sem snerti daudiblid skyldi óhreinn vera; en hér skédur þad þvert ámóti, ad allt þad, sem snertir Christí blessadann líkama, jafnvel andvana á krossinum edur í grøfinni, þad er øllum þeim hreint og heilagt, sem ordnir eru eitt med hønum, og krossinn, sem í sjálfum sér er bølvadur, hann er øllum Guds børnum blessadur ordinn, og gagnar til heilsusamligrar lækníngar andligra meina. Adur heldur enn Kristur bar sinn kross, edur forlíkadi fyrir oss á krossinum, þá hefir hann nefnt þær mótlætingar, ígégnum hverjar oss byrjar inn ad gánga í Guds ríki, med þessu nafni; svo segir hann Lúk. 14: Sá, sem ecki tekur sinn kross uppá sig og fylgir mér eptir, hann kann ecki ad vera minn lærisveinn; ecki í þeirri meiníngu, ad krossins nafn edur teikn kunni nockurn hlut andligann edur líkamligann ad verka, heldur svosem þad, ad Móses

baud Israels fólki í Guds stad, ad þeir skyldu binda Guds lögmál á sínar hendur, og skrifa þad á sína dyrustafi, uppá þad ad þad væri þeim alltíd fyrir augum og í fersku minni: svo virdist mér ad Kristur hafi eptirskilid sínum lærisveinum, bædi þeim sem nú eru og hafa verid, krossins minníngu til þess, ad vér ávallt hura skyldum til þeirra hluta, er oss eptir hans bodi þéna til sáluhjálpar; því sá, sem Christi kross uppá sig tekur, þad er: hann sem krossfestir holdid fyrir Christí skuld, ad þad hvorki fremji þess girndir, né mogli undir krossinum, hann hefir ad mér virdist uppfyllt Christí lögmál, þad hann baud sínum lærisveinum, hjá Matth. 16 kap., segjandi: Ef nockur vill mér eptirfylgja, hann taki sinn kross uppá sig og fylgi mér eptir! Og í þessari meiníngu mun krossins teikn vera fyrst innkomid og brúkad í kristiligri kyrkju, ecki af því, ad krossinn sé heilagri enn bondin, svipurnar, hrákarnir, edur hvert annad píslarfæri, sem Drottinn var kvalinn med, heldur sokum þess, ad krossburdur vors Herra útaf Jerúsalem til kvala-stadarins, og fullkomnan lausnar vorrar á krossinum skén, þad sýnist allra helzt ad kunna ad minna oss á þad tvent, sem kristinn madur á dagliga sér fyrir augum ad hafa, sem er: ad bera krossinn eptir Christó, og svo ad trúa á hinn Krossfesta.

Þannig var nú Jesú útgángur af Jerúsalem og þad ferunevti, er honum fylgdi frá

ráðhúsi hins heiðna landsdómara; en svosem ávallt skiptist fólkið í tvenna flokka, sem að eru Guðs börn og heimsins, svo skéði það einnig hér, þótt þeir væri flestir, sem útgengu til að sjá vild sína á því saklausa Guðs lambi, og að útausa þeirri grimd, er Djöfullinn hafði lengi með þeim safnað; ei að síður gánga jafnframt þessum nockrir, sem af guðligri rækt og elsku til síns Meistara vildu leitast við að gjöra honum þá síðustu þénustu, er þeir gjöra kunnu; þarum gétur svo textinn: Og honum fylgdi mikill fjöldi fólks og svo kenna, þær eð grétu hann og aumkuðu. Kallið á sorgarkonur að þær komi, segir Drottinn, Jer. kap. 9, þegar hann hafði ályktað að tortýna hinni fyrri Jerúsalem með herskildi; en hér þarf ecki að kalla; þær koma sjálfkrafa ókallaðar, þar Guðs fólk útgéck af Jerúsalem til að kalla þá ólucku yfir sig, að þeirra hús skyldi þeim í eyði látið verða. Sagan segir, að þessar kvinnur hafi verið úr Galílea; en eg hura til þess, er Lausnarinn sagði forðum, Lúk. 13: Meini þér, sagði hann, að þessir Galílei hafi syndugri verið öðrum Galíleis, af því þeir liðu þetta? nei! heldur nema þér ydrist allir, munuð þér viðlíka fyrirfarast. Eg mætti og segja á þessari stundu í hans orða stað: meinið þér, að þessar Galíleisku kvinnur hafi haft meiri orsök til að gráta í Jesú krossgaungu enn vorar sálir hafa? Að vísu ecki, því nema vér allir eins lærum Jesú grátandi eptir að fylgja, þá munum vér ecki

inngánga í Guds ríki. Þær grétu því þeirra Meistari var tekinn frá þeirra hefdi; vær mættum gráta af því, ad vér hefum hans hefud skomminni hulid; þær, sokum þess hann var til krossins leiddur; vær, af því vér hofum hann krossfestann; þær, vegna þess, ad hann, sem blindum gaf sýn, hann er af þeim blindu hundum svo kvalinn, ad hann sá ecki veginn fyrir fótum sér: vér, af því ad sýn augna vorra hefir hans augu sljófgad; þær, fyrir því ad hann, sem læknadi hina heltu, hans hnjálidir skjálfa, hans fótleggir titra, hann hefir eckért megn edur mátt ad bera hinn þúnga kross; en oss ætti þad sorg ad afla, ad hann er þessvegna svo vanburda ordinn, ad vér erum skjótir ad hlaupa þá breidu gotuna, sem liggur til glotunarinnar; vér heltrum optsinnis á bádar sídur, og hofum ei úttalad þá þrætu vid hold og og blód, hvort vér heldur viljum Gudi þjóna edur Mammóna. Þær gátu ei tárunum haldid í hefdi sínu, nær þær sáu Jesúm, er læknadi hina líkþráu, allann benjum hladinn, verr útleikinn af syndugra manna hardýdgi, heldurenn einn líkþrár af Guds fodurligu vandlæti: hann útrekinn af ollum, sem ollum hefir innbodid í þad ríkid, sem fyrirbúid er frá upphafi veraldar: já, útdrifinn af sínum brædrum, sem engann af sínum óvinum vill frá sér reka, er til hans kémur: yfirgéfinn af ollum, af Júda svikinn, hvorjum Pétur afneitad hafdi, af odrum lærisveinunum forlátinn, sem þó, hángandi

*á gálganum í sterkasta ofbodi sálar og lífs bitrustu* kvala, ecki forlét sína módur, standandi undir krossinum, ecki sinn lærisvein, þar nálægann, og ecki einn glæpamann, á hægra veg sér til smánar uppheingdann; en þitt hjarta klocknar ecki, ó, þú hin þverbrotna manneskja! þótt ad Guds Sonar hjarta smeltist í honum svosem annad vax í því badi, sem þú hefir kindt, og þú blygdast ecki ad sjá Gud í þinni fordæmíngu.

Jesús grét ecki útaf minníngu píslar sinnar, þegar hann sá þad mordíngja bæli, sem hann krossfesti, heldur af því þeir þecktu ecki sinn vitjunar tíma; svo mundi enn nú í dag, ef honum mætti nockur hlutur til ángurs vera, þar hann situr á hægra veg Gudi í dýrdinni. Hann telur ecki eptir oss allt þad hann þó þolad hefir vor vegna; en þó mundi hann hafa orsök til ad gráta yfir borginni, þad er: yfir kristninni, þar mönnum finnst svo lítt til hans pínu, og svo lítt færa menn sér hana í nyt almenniliga. O, hvad skamt mun þar til vera, ef Gud hinn alleina sæli kynni ad gráta, ad hann mundi svoddan harmagrát kveda yfir oss, sem hann kveda lét yfir sínu fólki í gamla daga! Jer. 8: Eg hefi afskræmt mitt andlit af harmi, mitt hjarta klemmist í sorg! sjáid hróp dótturinnar míns fólks er af fjarlægd; já, enn framar mundi hann vilja til vor segja: Standid vid dómara-portid í Jerúsalem, um hvert minn eingétinn Sonur geck út til kvala-

stadarins, og lítid utá Hausaskélja-stadinn, þar hann píndur var! sjáid þar ydvarn dóm á honum, sem ydar syndir bar! lítid, hversu ad hann nær því stridur einsog madkur, og varla gengur svosem einn madur, undir allrar veraldarinnar syndum! sjáid þar ljóma minnar dýrdar og ímynd guddómligrar persónu minnar, hversu hann framinn er undir ydar synda byrdi! Lítid þann góda Hirdirinn, hvörsu eg hann slegid hefi! Sjáid þá speki, sem eg átti í upphafi vega minna, hvernig má hún nu réttlætast af sonum sínum! Sjáid minn elskuliga Son, í hverjum mér alleina vel þóknast, hversu eg hefi hann yfirgéfid, hvern eg hefi fyrir ydar óhlydnis sakir straffad, minn trúlynda þjón, sem gjördist mér hlýdinn allt til daudans, já allt til krossins dauda! Látid ydur þad svída, ad hegníngin hefir á honum legid, svo þér kynnud ad hafa frid vid mig: hversu hann er þrælkadur í ydar syndum, sem er Konúngur konúnganna og Drottinn drottnanna: hversu ad hann er bölvan ordinn, sem er Gud, blessadur um aldir; og ef þad ei kann ydur til hjarta ad gánga, ad hann er minn Sonur, þá látid þad ydur ofbjóda, ad hann er ydar bródir, hold af ydar holdi, og bein af ydar beinum, hluttakandi holds og blóds einsog smábornin: hann hafi þér sært med ydar syndum, og aukid honum mædu med ydar misgjördum; þad er hann, hvers fórn í ydar holdi offrud er, sem ad þvíngar mín ydur til miskunar dagliga,

svo eg hlýt ydur nádugur ad vera; þad er hann, sem óaflátanliga bidur fyrir ydur, ad eg láti þad ávaxtarlausa tré standa enn eitt ár, ad hann meigi grafa í kríngum þad, og leggja þar myki ad; en þér berid súr vínber, og viljid ecki afláta; eg hefi slegid ydur, en þad hefir ei svidid; eg hefi fullkomnad ydur, en þér viljid ecki aganum taka. Þannig mundi Gud til vor tala, ef vér mættum sjá hann og lísi halda; en þad vantar þó ecki: allt hans ord, sem er ámedal vor, þad er fullt af slíkri kløgun, svo vér þurfum ecki ad fara í himininn upp til ad leita ad hans vilja. Svo hefum vér nú þannig heyrt vors Endurlausnara útgaungu af Jerúsalem, og um þá tvennslags hópa, er honum fylgdu.

Nú viljum vér framvegis yfírvega, hvad kvalararnir hofdust ad í aftøkustadnum; þarum segir svo í textanum: Þeir gáfu honum myrrublandad vín, med galli forblandad. Í Ordskvida bókarinnar 30 kap. segir: Géfid sterkann dryck þeim ed deya skal, og vín þeim sorgfullu ad drecka, svo hann gleymi sínni armædu, og minnist ei framar eymdar sinnar; en til þessa synist ecki hafa ætlad verid af kvølurunum, því textinn segir: Þeir gáfu honum myrru-blandad vín, med galli forblandad. Margur hefir þarum talad, hvílíkur ad verid hafi dryckur þessi; en valla er efi á því, ad hann hefir sambodid annari breytni þeirra vid Frelsarann. Hvílík eru nú ósköp þessi! þar hann

ecki einasta alla nóttina var hrakinn frá einum stad til annars, sleginn, húdstryktur og þyrnum krýndur ad morgni, hinn þúnga kross bar hann á herdum sér, hans svaladryckur voru hrákar ógudligra, hans huggun og fortelur brixli og hádúngar gudlausra skálka: heldur og, ofaná allt þetta, bar hann allra manna, vondra og gódra, trúadra og vantrúadra, smærri og stærri, nálægra og fjarlægra, þad er allrar veraldarinnar, eg segi allra þeirra syndir og allt þeirra straff, svosem í einum bagga bundid: þad bar hann; svo ad Davíd klagar sárliga undir hans persónu, Ps. 22: Minir kraptar eru uppþornadir sem önnur skurn, og mín túnga lodir vid minn góm, því þú leggur mig í daudans dupt. Minn Herra Jesú! ertú ei þetta, sem dryckjadir fedur þeirra af hellunni í Massa og Meriba? 2 Mós. 17, þú sem endurnærdir sálir þeirra med sama hætti, er þeir mögludu í Kades? 4 Mós. 20, þú sem gafst þrem konúngum fullsælu vatns í Edom-eydimerku úr grofunum? ertú ei þad, sem dryckjar alla réttrúada med vellystínganna straumum af lífsins brunni? Ps. 37, þú sem fedur þeirra hafdir látid sjúga hunáng af hellunni og oleum af hinum harda klettinum? 5 Mós. 32: er ecki þínum munni gall borid? Hann, sem ber alla hluti med ordi síns kraptar, Hebr. 1, hann fær eckért af öllu því, sem hann skapad hafdi, til ad svala hjarta sínu; sá, sem votnin hefir útþanid, hann fær ecki

einn vatnsdropa til ad kæla túngu sína, þar hann kvaldist í þessum loga, Lúk. 16. Lítum nú, kristnir menn! til hins ríka vesælíngs, þar hann píndist í helvíti og kvelunum, hvörsu ad eldurinn er hans túngu heitur, ad hann veinar eptir einum dropa vatns af Lazarí fíngri: svo miskunarlaus sem Abraham var vid hann, þar hann var fordæmdur, svo litla miskun fékk nú Mannsins Sonur, þá hann bar fordæmdra syndir. Þenna kvalanna þorsta áttum vér eylífliga ad þola, nema Kristur hefdi hann hér af oss tekid, svo vér í stadinn þess skyldum drykkjadir verda af Guds húss nægdargædum, Ps. 16. Taktu þenna bikar! segir Gud vid Jeremíam, þenna bikar minnar brennandi heiptar af minni hendi, og gef þaraf ad drecka öllum þ.im, er eg mun senda hann til, Jer. 25; þessa ádrykkju hafdi allt syndugt hold forþénad af Guds hendi, því fyrir honum er enginn manna réttlátur; en hinn Elskuligasti Guds má þad drecka fyrir einn þverbrotinn syndara. O, Israel! hvílíkann ávöxt hefir Guds víngardur borid honum! er ecki þetta einn villivínvidur fyrir sætann, sem hans hönd plantad hafdi? Esa. 5; er ecki þetta einn annarligur vínvidur? er ecki þetta svosem heggorma og drekanna eitur? er ecki þetta vín af Sódóma og Gommora akri? Jer. 2, 5 Mós. 32; er ecki þetta hid Babylóniska hórunar-vín, af hvörju þjódirnar drucknar eru? og eru ei þetta þínar ránglætíngar, syndugur madur! sem þú dagliga inndreckur, svo sem þurr

jord inndreckur vatn? hefir þú ecki ǫllu þessu blandad vid þinn súra dryck, sem midt í kvalanna báli var þínum Lausnara borinn? Þetta lét hann sér þóknast ad lída, svo ad ef sú mannræna kæmi einhverntíma ad þér, ad þig lángadi eptir Gudi, svo sem hjørtinn eptir ferska vatni: ad þú í honum, sem er lífsins brunnur, Jóh. 6, hefdir einn svaladryck, svo þig þyrsti ecki ad eylífu. Þinna ránglætínga korgur og þær fúlu dreggjar, sem Andskotinn hafdi byrlad þér, þad verdur skeinkt á fyrir hann, svo nær ad syndir þínar kvelja þig, og þér tekur til ad lída í brjóst af ofstækju þeirra, svo þig húngrar og þyrstir eptir réttlætinu, ad hann þá dreipi á þig í aungvitum ydrunar þinnar med sínu blódi, af þeim blessunar-kaleik, sem þér verdur í heilogu altarisins sakramenti borinn. O, minn Herra! fyrir þinn sorgar-dryck hefi eg einn gledi-dryck hlotid; fyrir Guds reidi-kaleik hefir þú skeinkt fullt á fyrir mig í einum vina-bikar; fyrir þinn kvala-dryck hefi eg einn svaladryck fengid, og fyrir gall og myrru-blandad vín, sem þér var boridí kvølinni, mun eg drecka nýtt vín med þér í dýrdinni. Frelsarinn vildi ecki drecka þenna banvæna dryck, ecki þad hann mælti sig undan píslunum, heldur ad hann kynni ad endast til ad drecka þann kaleik ad fullu, er honum var ætladur af Fødurnum; hann vildi ecki deyfa túngu sína med eitrinu, svo munnurinn kynni ad bera vitni um hans elsku í hjartanu. Gydíngar budu þad kannské í þeirri meiníngu,

ad hann skyldi ecki eyda ordum til vandlætis yfir þeim; en hann vildi ecki drecka, svo hann hefdi ennþá sína túngu óskérta til ad bidja fyrir þeim; hann hafdi ennþá ecki heitid ræníngjanum Paradís, ennþá ecki gjört hina sídurstu rádstöfun um módur sína; hann hafdi ennþá ecki vitnad fyrir heiminum, hvorsu hann var af Gudi yfirgéfinn, svo Gud skyldi einn ydraudi mann aldrei forláta; ecki hafdi hann ennþá sagt oss, hvorsu mjög hann þyrsti eptir velferd vorri, ecki yfirlýst heimsins endurlausn, og ennþá ecki falid anda sinn í hendur Födursins, svo hann kéndi oss hina sídurstu andláts bæn; allt þetta hafdi Drottinn ennþá ógjört, og fyrir því vildi hann ecki drecka. Þetta gudlausa nídíngsverk framfór í þeim stad, er á Ebresku kallast Golgatha, en á vora túngu: Hausa-stadur, og var eitt mjög ófrægt pláts, af straffi glæpamanna, sem þar voru líflátnir. Kristur géck uppá Hausa-skélja-fjallid, hvort ad lá einn ordugur vegur, svo hann leysti oss frá helvíti, hvort ad liggur ein breid gata til eylífrar glötunar. Hann úthellti sínu blódi í ófrægum stad, svo hann helgadi jördina, sem fyrir mannsins illsku sakir bölvud var; hann létst í óhreinu plátsi, svo ad vér hreinir og kvittir af öllum vorum syndum mættum inngánga í þá himnesku Jerúsalem, hvar eckért saurugt má innkomast, Opinb. 22. Júdar gjördu hans hús, sem var bæna hús ad ræníngja bæli; en Jesús gjördi ræníngja bælid ad

Guds húsi, þar hann hángandi á krossinum offr=adi sjálfum sér Gudi til eins sætleiks ylms fyrir syndir vorar, og svo bænum og audmjúkum and=vorpunum med kroptugu hrópi og tárum til hans, er hann frelsa kunni af daudanum, Hebr. 5. Framar segir textinn, ad þeir hafi krossfest hann í þeim stad Golgatha; fá eru þessi ord, enn þö full af krapti, því af þeim hángir öll vor velferd og sáluhjálp, sem Kristur hefir oss á sínum krossi útvegad. Krossfestíngin var þinn smánarligasti daudi; því segir svo Mó=ses, 5 Mós. 21: Sá hinn uppheingdi er ein audstygd fyrir Gudi; og þad var svo ófrægt med=al heidíngjanna, ad Ciceró skrifar: Þad er glæpur ad binda rómverskann borgara, ógjörníngur ad húdstrykja, óbótaverk ad drepa; hvad skal eg þá kalla þad ad krossfesta? En hérá urdu nock=ur umskipti í krossfestíngu Drottins; fyrir kvöl=urunum var þad sama, en í Guds dyrdarfulla augliti lángtum ödruvísi, því Jesús, á krossinum hángandi, er fagur í Guds augum, og eitt for=líkunar=offur fyrir vorar, og ecki ad eins fyrir vorar, heldur fyrir allrar veraldarinnar syndir. Og svo vidurstyggiligt sem ad var þetta straff, svo var þad og sárt og biturt ad lída. Stríds=menninnir, þeir ógudligu kvalanna þrælar, þeir standa hér til allrar óhæfu búnir í kríngum þad saklausa Guds Lamb; þeir hrynda krossinum af hans herdum, þeir framreida píslar færin fyrir

hans augum, þeir slíta hans klædi frá hans blódrisa líkama, þeir útþenja hans blessadann fadm, sem hann útbreidir allann daginn til eins óhlýdugs fólks, þeir stegla hans hendur og fætur med goddunum á tréd; sídan hángir allur hans líkamans þúngi á þremur járnneglum. Sjáid nú manninn, kristnir menn! Hér hángir hinn Blessadi í Israel svo sem ein bølvan milli himins og jardar, svo þad ord uppfylltist, er hann taladi fyrir munn Davíds, Ps. 22: Þeir hafa mínar hendur og fætur ígégnum-grafid; já ein ønnur rituíng, er hann sjálfur taladi med sínum egin munni: Þá eg verd frá jørdunni upphafinn, mun eg draga alla til mín; þetta taladi hann, segir Jóhannes, teiknandi med hverjum dauda hann deya mundi, Jóh. 12. Bølvadur veri sá, sem ecki heldur allt þad, sem skrifad stendur í løgmáls-bókinni, segir Drottinn Zebaoth, 5 Mós. 27; þad gjørdum vér engaňveginn, því vér gengum eptir høfdíngja veraldar þessarar í girndum vors holds, gjørandi þad, sem voru holdi og hugrenníngum þóknadist, og vorum af náttúrunni reidinnar børn, segir Páłus, Eph. 2; þarfyrir høfdum vér ecki einúngis tímanligann gálga forskuldad, heldur eylífliga ad steglast á þeim hrædiliga kvalanna gálga: ecki med galli og ediki ad dryckjast, heldur med eldi og brennusteini: ecki um þrjár stundir, heldur um alla eylífd. Bølvadur veri sá, sem hángir á trénu, segir løgmálid; en hvad segir Páll? Gal. 3: Kristur hefir endurleyst oss af

logmálsins bolvan, ordinn bolvan fyrir vorar sakir, því skrifad er: Bølvadur sé sá, sem á trénu hángir! Vér vorum skuldaþrælar almáttugs Guds, og sjálfdæmdir til ytstu myrkra, þartil vér hefdum goldid hinn sídasta peníng; nær mundi þad hafa gétad skéd af sjálfum oss? Ecki um alla eylífd. En Guds Sonur er stíginn uppá tréd med þá handskriftina, sem ámóti oss var; hana hefir hann á krossinn neglt og burtu tekid, segir Páll, Kól. 2, og oss aptur eina kvittun géfid med sínu eigin blódi, ritada á hjørtu vor med Guds fíngri, sem er Heilagur Andi, hvør ad er pantur arfleifdar vorrar, og ber vitnisburd vorum anda, ad vér séum Guds born, Róm. 8; hún er þannig látandi, ad þar sé engin fordæmíng framar á þeim, sem eru í Christó Jesú, þeim, sem ecki eptir holdinu, heldur eptir andanum gánga. Svo hefir þú lokid hinn sídarsta peníng, minn Herra Jesú! alla summuna hefir þú goldid Drottni; Barrabas slapp, en Kristur er uppá gálgann heingdur; þrællinn er kvittur, en Drottinn er krossfestur. Géf þú nú, Jesú minn! géf þú nú fyrir øll þau hrygdarspor, er þú géckst frá Gabbatha til Golgatha, þá géf þad, Drottinn! ad nær vér eigum ad gánga frá Golgatha til Gabbatha, þad er: frá daudanum fyrir hinn hærsta rétt í himninum, ad þinn blessadi krossburdur sé oss þá fyrir augum, svo ad vér mættum fylgja þér ótraudir ígegnum daudans skugga inní eylíft ljós og þá himnesku paradís, hvar Gud

er allt í ollu og engin umskipti framar ljóssins og myrkursins. Pad bænheyri gódur Gud fyrir Jésú Christí skuld! amen!

---

## Sjøtta Midvikudags Prédikun í Føstu.

Pá strídsmenninnir høfdu krossfest Jesúm, tóku þeir hans klædnad, og gjørdu á fjøgra hluta skipti, sérhvørjum strídsmanna einn hlut, og vørpudu þarum hlutkésti, hvør ad hann skyldi hafa, og þarmed kyrtilinn, en kyrtillinn var eigi saumadur, heldur frá ofanverdu allur prjónadur. Pá tøludu þeir sín ámilli: skiptum vær honum eigi í sundur, hlutumst heldur um, hvørs hann skal vera; svo ad ritningin uppfyldist, hvad sagt er fyrir spámanninn, er segir: Peir skiptu med sér klædum mínum, og á minn kyrtil þá løgdu þeir hlutkésti. Og þetta gjørdu strídsmenninnir, og fólkid stód og horfdi á. Og þeir, sem gengu þar framhjá, hæddu hann, skóku høfud sín, og søgdu: svei! hvørnig nidurbrýtur þú musterid, og uppbyggir þad aptur á þremur døgum? hjálpa þú nú sjálfum þér, ef þú ert Guds Sonur, og stíg nidur af krossinum! Og

höfdíngjarnir spottudu hann med þeim, líka einninn hæddu hann þeir ædstu prestar sin ámedal med skriftlærdum og öldúngum, og sögdu: ödrum hefir hann hjálpad, sjálfum sér getur hann eigi hjálpad; sé hann Kristur og kóngr Israels, þá stígi hann nú nidur af krossinum, ad vér sjáum og meigum svo trúa honum! hjálpi hann nú sjálfum sér, ef hann er Kristur, hinn útvaldi Guds! hann treysti Gudi, hann frelsi hann nú, ef hann hefir lyst til hans, þvíad hann sagdi: eg em Guds Son. Ad honum hæddu og stríðsmenninnir, gengu til hans og færdu honum edik, og sögdu: ef þú ert konúngur Gydínga, þá hjálpa þér sjálfum! Líka einninn hæddu hann ræníngjarnir, þeir med honum voru krossfestir. En einn af þeim spillvirkjum, sem heingdir voru, lastadi hann og sagdi: ef þú ert Kristur, frelsa sjálfann þig og ockur! Þá svaradi hinn annar, straffadi hann og sagdi: og þú hrædist ei heldur Gud, sem ert þö í eins fordæmíngu, og ad sönnu skér ockur þetta réttiliga, þvíad vér medtökum hvad ockar gjördir voru verdar, en þessi hefir eckert óskickanligt gjört. Og hann sagdi til Jesú: Drottinn! minnstu mín, þá þú kémur í ríki þitt! Og Jesús sagdi til hans: Sannliga segi eg þér: í dag skaltu vera med mér í Paradís!

En þar stódu vid krossinn Jesú módir hans og módursystir hans, María húsfrú Kleóphæ, og María Magdalena. Þá Jesús sá nú sína módur, og þann lærisvein, þar nær standandi, er hann elskadi, segir hann til sinnar módur: Kona! sjá þú! þad er þinn sonur; eptir þad segir hann til lærisveinsins: sjá! þad er þín módir. Og uppfrá þeirri stundu tók lærisveininn hana ad sér.

Og þad var nær um hina siöttu stund, ad myrkur gjordist yfir allt landid, allt nær til níundu stundar, og sólin misti sitt skyn. Og um níundu stundu kalladi Jesús hárri roddu, og sagdi: Eli! Eli! lama sabachtaní? hvad ed útleggst: Gud minn! Gud minn! hvarfyrir forlétstu mig? Og nockrir af þeim, er þar stódu hjá, þá þeir heyrdu þad, sögdu þeir: sjá! hann kallar á Elíam. Eptir þad, þá Jesús vissi ad allt var nú fullkomnad, og ad skriftin yrdi uppfyld, þá segir hann: Mig þyrstir! Þar stód eitt kér fullt af ediki; jafnsnart hljóp einn af þeim til, og tók njardarvött, og fyllti af ediki, og setti hann ofaná einn reirlegg, og gaf honum ad drecka, og sagdi: lát vera! sjáum hvort Elías kémur ad taka hann ofan; en adrir sögdu: bídid! látid sjá, hvort Elías kémur ad hjálpa honum. En þá Jesús hafdi edikid til sín tekid, sagdi hann:

Þad er fullkomnad! Og Jesús kalladi upp hárri roddu í annad sinn, og sagdi: Fadir! í pínar hendur fel eg minn anda! Og er hann hafdi þetta sagt, ad hneigdu høfdi, uppgaf hann sinn anda. Og sjá! ad tjaldid musterisins rifnadi midt sundur í tvo parta, frá ofanverdu allt nidur ígégnum, og jordin skalf, og bjørgin klofnudu, og grafirnar lukust upp, og margir líkamir heilagra risu upp, þeir ed sváfu, og géngu eptir hans upprisu úr grøfunum, og komu í hina heilogu borg, og auglýstust þar morgum. En er hundradshøfdínginn, hvor þar stód gégnt, sá þad, hvad þar skédi, og ad hann kalladi svo, þá ed hann létst, prísadi hann Gud og sagdi: ad vísu hefir þetta einn réttlátur madur verid og Guds Sonur. Og þeir, sem med honum voru ad vardveita Jesúm, þá þeir sáu jardskjálftann, og þad, hvad þar skédi, urdu þeir mjøg óttaslegnir, og søgdu: sannliga var þessi Guds Sonur. Og allt fólk, er þar var hjá og horfdi á, sem þeir sáu hvad þar skédi, bardi þad sér á brjóst, og snéri íburt aptur. En allir hans kunníngjar stódu lángt fra; þar voru og margar konur, sem sáu þar uppá áleingdar, medal hvorra ad var María Magdalena, og María hins litla Jakobs, og Jósephs módir, og Salóme, módir þeirra

Zebedeí sona, þær honum höfdu eptirfylgt, þá hann var í Galilea, og þjónad honum, og margar adrar, hvörjar med honum höfdu uppfarid til Jerúsalem úr Galilea, og horfdu á þetta.

En Gydíngar, med því þad var affángadagurinn, svo ad líkamarnir væri ecki á krossinum um sabbatsdaginn, því sá sami sabbatsdagur var mikill, þá bádu þeir Pilatum, ad þeirra bein brytust og ofan tækist. Þá komu strídsmenninnir, og brutu sundur bein hins fyrsta og svo hins annars, sem med honum voru krossfestir. En þá þeir komu til Jesúm, og sáu ad hann var allareidu dáinn, þá brutu þeir eigi hans bein, heldur opnadi einn af strídsmönnunum hans sídu med spjóti, og strax þá rann út blód og vatn. Og sá, er þad hefir séd, ber þar nitni um, og hans vitnisburdur er sannur, og hann sami veit þad, ad hann segir satt, svo ad þér ogsvo trúid; þvíad þetta er skéd, svo ad ritníngin uppfyldist: Eigi skulud þér brjóta nockud hans bein! og enn aptur segir önnur ritníng: Þeir munu sjá hann, í hvörn þeir stúngu.

Þareptir, þá er kvöld var komid, af því þad var affángadagur, hvor ad er fyrir sabbatsdaginn, kom nockur madur ríkur af borg Gydínga Arímathía, Jóseph ad

nafni, einn heidurligur rádherra, gódur mann og réttvís, hvør eigi hafdi verid samþykkur þeirra rádagjørd og breytni, hvør ed ogsvo var einn af lærisveinum Jesú, þó heimugligur, fyrir ótta sakir vid Gydínga, sá er og vonadi eptir Guds ríki: hann dyrfdist ad gánga inn til Pilatum, og bad um, ad hann mætti taka nidur líkama Jesú. En Pilatus undradist, ad hann væri þegar látinn, og kalladi hundradshøfdíngjann og spurdi hann ad, ef hann væri fyrir laungu andadur. Og er hann var þess vís ordinn af hundradshøfdíngjanum, leyfdi Pilatus og skipadi, ad Jóseph skyldi afhendast líkaminn, og gaf honum hann; þá kom hann og tók nidur líkamann Jesú. Og hann keypti einn líndúk, og tók vid líkamanum, og sveipadi hann í hreinu lérepti; þar kom og Nikódemus, sá er fyrri kom um nótt til Jesú, færandi samblandad myrru alóe, nær hundrad punda. Þá tóku þeir líkamann Jesú og sveipudu hann í líni med dýrmætu salve, svosem Gydínga sidur er til ad greftra. En þar í þeim stad, hvar hann var krossfestur, var grasgardur, og í grasgardinum var ný grøf, í hvørja ad enginn hafdi enn verid lagdur; og Jóseph lagdi hann í þessa sína eigin nýa grøf, hvørja hann hafdi úthøggva lát-

id í steini, og velti stórum steini ad grafar dyrunum og géck í burt. Og þad var affángadagur, og sabbatsdagurinn tók til; þángad lögdu þeir Jesúm fyrir sakir affángadagsins Gydínga, þvíad sú gröf var nærri. En þar var María Magdalena og önnur María Jósephs, og þær konur, sem komnar voru med honum af Galílea fylgdu eptir, sitjandi gégnt yfir frá gröfinni, og skodudu gröfina, sáu til hvar og hvörnin hans líkami var lagdur. En þær snéru aptur, reidandi til dýrmætar jurtir og salve; en um sabbatsdaginn voru þær kyrrar eptir lögmálinu. Og annann dag, þann sem eptir affángadaginn er, sofnudust saman þeir ypparstu prestar og Pharísei ásamt til Pílatum og sögdu: herra! vær minnumst á þad, ad þessi svikari sagdi, þá er hann lifdi: eptir þrjá daga mun eg upprísa; af því skipa þú ad forvara gröfina allt til hins þridja dags, svo ad eigi komi hans lærisveinar á nóttu og steli honum í burt, og segi fólkinu ad hann sé upprisinn frá daudum, og verdi hin seinni villa argari þeirri fyrri. Pílatus sagdi til þeirra: þar hafid þér vardmennina, farid, forvarid sem þér hafid vit á! En þeir gengu í burt og forvörudu gröfina med vardmönnunum og innsigludu steinim.

Viltu ecki frelsa fángann, sem til dauda er dæmdur, og þann, sem liggur vid líflati, þar þú segir: vér þeckjum ecki þenna? meinar þú ecki ad hann, sem ransakar hjartad, hann merki þad, og hann, sem tekur vara á sálu þinni, hann þecki þad? mun hann ecki gjalda hvørjum manni eptir verkum sínum, segir Salómon? Ordskv. 24. Ef ad hinn réttláti Gud, sem einn mann hefir ødrum til hjálpar skapad, ef ad hann er svo vandlátur vid þann, sem dregur sig í í hlé, þar hann mætti hjálpa løgræníngnum, sem er adkominn dauda, ad hann vill merkja þad og krefja þess af hans hendi: hvad mun hann þá vilja giørt hafa vid þann, sem hinn saklausa heimtar til daudans, um hvørja hinn Vísi talar, í sínnar bókar ødrum kap. á þennann hátt: Vér viljum umkríngja hinn réttláta, því hann er oss óþarfur, og hann mótstendur giørdum vorum, og bríxlar oss um syndir vorar; hann er gjørdur til ad reka til baka huxanir vorar; þad er oss þúngt ad sjá hann, því hans líferni er ólíkt ødrum, og hans vegir liggja á adra leid. Nú er illmennska þessi svo mikil, ad varla má óhæfan stíga hærra upp; en þad eykur þó miklu á stráksskapinn, þegar nockur gledst af óförum síns náúnga, er hann sjálfur hefir spunnid togann til, og jafnvel þótt hann ætti fyrir syndir sínar ad lída, því varla er nockurt svo stálslegid hjarta, ad ecki sjái aumur á þeim, sem hegníngu sætir fyrir afbrot sín; og hvad skal eg þá tala um þann, sem hlackar yfir því ránglæti, sem yfir hinn réttláta geingur. Þetta mátti hann þó lída af ógudligum mønnum, sem er Jehóva, vort réttlæti, Guds eingetinn Sonur, hvørn enginn kunni ad straffa um nockra synd. Eg hefi á nockrum fyrirfarandi midvikudøgum talad þarum, hvørnveg hann var spottadur af biskups þénurunum, illa útleikinn í þínghúsinu af stríðsmønnunum, hraktur á veginum, krossfestur í aftøkustadnum; en nú vil eg ad sídustu þar um tala: Hvílíka smán, bríxli, kals og gudlastanir ad hann vard ad heyra á krossinum. Legg þú mér máli munn, Drottinn! og umskér eyru barna þinna, svo ad þetta eríndi vel takist, fyrir þíns dýra nafns skuld, amen!

Í hinni síðustu grein píslarsögu Drottins, sem lesin var (af þessum heilaga stað), fengum vér að heyra, að hann krossfestur var ámillum tveggja ræníngja. Hann, sem ámillum tveggja er settur, hann var fordum daga mest metinn. Salóme beiddi Drottinn um, að sínir synir mættu sitja einn á hægra veg hönum, en annar á vinstri, í hans ríki; hún meinti þeir skyldu hönum næstir verda að allri tign og heidri; en hér var engri virdíngu að skipta, hér var ekki nema skömm og sneypa á ferdum. Þeir hafa án efa sett hann midt á millum ræníngjanna, svosem hinn argasta ræníngja; hann, sem þó galdt það hann ekki rænti, hann, sem ei héldt fyrir rán edur stærdi sig af því, að hann Gudi jafn var, heldur tók á sig mind eins þjóns, ordinn mönnum líkur, hann er medal óbótamanna reiknadur; hann ed skín í dýrdinni midt ámedal hinna tveggja Guddóms persónanna, hönum velja þeir pláts millum tveggja spillvirkja; og svo að eg færi sönnur á mál mitt, að þetta hafi verid gjört til smánar hönum, þá segir textinn: En þeir, sem framhjá gengu, löstudu hann og skóku höfud sín. Ekkért leggja þeir til ræníngjanna, hvörsu ófrægir sem þeir voru; hann alleina vard fyrir þessari smán, midt í stridinu vid daudann, sem alleina hefir daudann sigrad; þeir löstudu hann alleina, hvörn enginn kunni fyrir

nockra synd ad lasta; þeir skóku høfud sín yfir hans forsmán og hørmúngu, hvørn englarnir og høfudenglarnir tilbidja. Þeir skóku høfud sín, segir í textanum; þad var venja þeirra áſtundum í fyrndinni, sem aumkudu nockurn. Eg skyldi og samsetja rædu, og hrysta høfud mitt yfir ydur! sagdi Job vid vini sína, Job. 16; og um þá stendur, ad þeir hafi ausid mold yfir høfud sín, og huggad hann í øllum hans mótgángi, Job. 2. En hér var engin huggun, engin miskun, heldur í stadinn þess lastmæli, hád og késkni; er því þetta ad skilja, svosem Drottinn sagdi um Senackérib: Jómfrúin Zíons dóttir hædir ad þér, og Jerúsalems dóttir hún skékur høfudid eptir þér, 2 Kóng. 19; en yfir hønum, sem þetta lét segja hinum stórláta kongúngi, vegna fedra þeirra, hvørs engill ad drap á einni nóttu 120 þúsundir manns í hans herbúdum, yfir hønum skaka þeir nú høfud sín. Hér er framkominn spádómur Davíds, er hann segir undir persónu Christí, Ps. 22: Allir þeir ed sjá mig, spotta mig og hrysta med høfdinu, já, þeir sáu mig og skóku høfud sín, Ps. 109. Hvørjir voru nú ad skémtan þessari? Þeir, sem framhjá géngu, segir textinn; almúginn án efa, þeir ed út voru géngnir til ad svala sér á blódi hins Réttláta; ádur høfdu þeir hrópad: Krossfestu! krossfestu hann! hér vilja þeir sjá vild sína á hønum, því Davíd segir í þeirra orda stad: Vel, vel, vor augu hafa séd þad, Psálm. 35.

Herra Guð! valla er nockur hlutur sorgligri að hura um, enn vanþacklætið í heiminum. Enginn efi er á því, að margur hefir vaðið í þessum vitstola slocki, hvörs borgarmenn og jafnvel vini og náúnga að Jesús læknað hefir, því fyrir utan öll þau miskunar- og krapta-verk, sem upp eru teiknuð af guðspjallamönnunum, þá segir Jóhannes, að Jesús hafi marga aðra hluti gjört, hvörjir ef allir sérílagi ritast skyldu, þá mundi heimurinn ecki taka þær bækur, sem skrifast mættu; og kunna menn ecki það að ætla, að þetta illþýði hafi hlutlaust farið af hans miskunarverkum, því hann géck í kríng, gjörði gott, og græddi alla þá, sem af ýmisligum sjúkdómum haldnir voru; en þetta eru nú hans þackir, sem allt gjörði vel, lét dauva heyra og máltausa tala. Bregðstu því ei ókunnugur við, barn mitt! þótt veröldin leggi þér illa í þock. Guðs Sonur fickst eckért um smán þessa, ecki gafst hann upp við endurlausnarverkið hálfbúið, þótt hann mætti þetta heyra; þú skalt ecki heldur þreytast gott að gjöra, hvörnveg sem þér er launað; ætla ecki, að þér sé vandara um enn hönum; hafi þeir Húsbóndann Belzebub kallað, hvað munu þeir ecki gjöra við hans heimamenn? Svosem Guðs Sonur kom í heiminn til að niðurbrjóta Djöfulsins verk, svo er það og Djöfulsins ydja, að niðurbrjóta Guðs verk; lát hönum það ecki takast, Guðs vinur! heldur fylg eptir Lausnara þínum í þessu sem öllu öðru; allt hvað þú gott gjörir, það gjörir ecki þú, held-

ur sú Guds náð, sem með þér er, svo að hann sem vanþackar þér, hann vanþackar ecki þér, heldur Gudi, sem gaf þér bæði viljann og máttinn, hans er ríkið máttur inn og dýrðin; þú ert alleina hans umboðsmaður; lát því Djøfulinn og hans børn hafa gaman af vanþacklætinu; sá dagur mun koma, að þeirra eigin þreck mun kastað verða í nasir þeim, en þú munt skína eins og sól í ríki þíns Føðurs.

Hvor eru nú bríxlin framar? Svei! ertu hann, sem niðurbrautst musterið, og bygdir það upp aptur á þrem døgum? Aldrei hafdi Drottinn svo talað; svo hafdi hann sagt: Brjótið þér þetta musteri! en eg mun það á þridja degi upp aptur reisa; en hann taladi um musteri síns líkama, segir Jóhannes; og svo lángt var frá því, að hann meinti Jerúsalems musteri, að hið gudlausa kénnivald, þeir vildu ecki taka falsvottana fyrir gylda, sem þetta báru. Þannig er nú almúginn, þegar hann tekur til að henda lýgina munna ámilli (eg fráskil alla ráðvanda menn, sem leggja nockurt haft á túngu sína, því það væri ecki gott, að allur Israel skyldi hafa beygt sín kné fyrir Baal); þannig er hann, segi eg, þegar nockrum óhródur er ljóstað upp, jafnvel um góða menn; sé það satt eður logið, það skal þó satt heita, og þykist sá góðu bættur, sem nockru gétur viðaukið, þegar túngan er upptendruð af helvíti, segir Jakob, og upptendrar síðan alla þess manns umgengni, sem hefir leigt hana Fjandanum, til að spilla virdíngu náúnga síns og hans góðu

mannordi. En hvarfyrir mundu þeir nú bríxla Drottni helst um kyrkjuna? mun ecki þessvegna ad þeir høfdu meiri mætur á henni, enn á Guds bodordum? O, hvørsu vel hefir þessi Djøfulsins samkunda uppfyllt mælíng fedra sinna! Eru þad ei þeir, til hvørra Gud sagdi: Hafid ecki traust ydar á fánýtum hlutum, segjandi: Guds musteri, Guds musteri er þetta! Jer. 7, heldur gjørid ydar vegu góda, og dæmid rétt ámillum eins manns og annars; skyldud þér stela, menn vega, sverja rángliga, og færa Baal fórnir, og standa þó fyrir mér í þessu húsi? Þetta gjørdu fedurnir; en hvad gjøra nidjar þeirra? Musterid gjørdu þeir ad ræníngjabæli, en hid sanna Guds musteri, í hvørju ad bjó øll hans fylling líkamliga, þad festu þeir uppá krossinn milli tveggja ræníngja; þeir hrósudu sér af løgmálinu, en Barabba slepptu þeir, og Jesúm kølludu þeir dauda sekann. Nú þótt ad Drottinn hefdi talad þessi ord um Jerúsalems musteri, mundi hønum nockud vera þad ómøguligt, sem alla verøldina gjørdi á sex døgum? Var þad ecki hann, er sagdi vid fedur þeirra: Farid til míns stadar, sem var í Síló, hvar eg lét mitt nafn fyrst búa, og sjáid hvad eg gjørdi hønum, søkum illsku míns fólks Israel? Hvad var þad? Drottinn! Þad, ad þú leyfdir ad sáttmálsørkin, hvøred var fulltrúi Israels barna, ad hún yrdi hinum óumskornu Philisteis ad herfángi, svo ad hún kom sídan aldrei meir í þann sama stad. En hvad segir nú Drottinn um Saló-

mons musteri skømmu sídar í þessum sama kapítula? Eg skal gjøra vid þetta hús, sem eptir mínu nafni er kallad, á hvørt þér treystid, og vid þenna stad, er eg gaf ydur og fedrum ydar, svosem eg gjørdi vid Síló. Mundu ei þessi Drottins ord sannast, þegar Nebúkadnesar lét þad nidur ad velli brjóta, en tók fólkid herfángi? Hvad mundi þá nú vera í þessu sídara musteri, sem heldur kynni ad frelsa þad frá ólukkunni, heldurenn hid fyrra, nema sá Drottnarinn, sem Mickeas umspáir, hvørn þeir krossfestu: nema sá hyrníngarsteinninn, hvørjum þeir útkøstudu? Alltíd er Djøfullinn sjálfum sér líkur í vantrúarinnar børnum; fedur þeirra vildu ekki trúa spámønnunum, sem tøludu til þeirra í nafni Drottins; þessir ei heldur Syninum, er Fadirinn taladi til þeirra fyrir hann, Hebr. 1, jafnvel þótt hann segdi þeim nógu skørugliga, ad þeirra hús skyldi þeim í eydi látid verda, og ekki skyldi í því steinn yfir steini vera. Lærum héraf kristnir menn! ad ei køllum vér þad fulla Guds dýrkun, ad virda hans hús og sækja þad, nema vér prýdum þad Guds musteri, sem inni hjá oss er, og heitir hjarta vort, med kristiligum dygdum. Alla virdíngu á ad veita Guds húsi, og øllum þeim hlutum, sem hønum sérílagi vidkoma. Þad heyri eg til gyldis talid hundradshøfdíngjanum, ad hann uppbyggdi samkundu Gydínga; en hitt byrjar ad gjøra, børn mín! og þetta ekki

eptir ad skilja, því hvør hann inngengur í Guds hús, til ad heyra hans ord, og færir þáng-ad med sér óvini krossins Christí, sem eru þær syndir, er hann ecki ydrast vill, edur og ásetur ad drýgja framvegis, hann saurgar þad, og er engu betri enn þeir, ed gjørdu musterid ad ræníngjabæli.

Ef þú ert Guds Sonur, þá stíg ofan af krossinum! segja varmenni þessi. Ecki er þess von ad eplid falli lángt frá eikinni. Djøfullinn hafdi ádur sagt, er hann freistadi Drottins: Ef þú ert Guds Sonur, þá fleyg þér hér ofan af! og hér ávarpa hans børn hann med sømu ordum. O, hvørsu fávís er holdligur madur ad skynja þad, sem Anda Drottins er! Þeir søgdu, minn Herra! ef þú ert Guds Sonur, þá stíg ofan af krossinum! en af því þú varst Guds Sonur, þá vildir þú ecki ofanstíga; þú stódst hér ad því verki, sem var miklu meira, miklu guddómligra, enn ad stíga ofan af gálganum; þú hafdir géngid á hólm vid hinn sterka hervopnada; þú hafdir tekid hér daud-ann, helvíti og Djøfulinn í fáng þér; þú vildir ecki af hólminum gánga, fyrrenn daudinn var í sigur uppsvelgdur, helvítanna port nidurbrotin, og høgg-ormsins haus í sundur trodinn, en hann útsnarad-ur. Hvad létt var þér, sem komst úr þeirra hønd-um, er þeir vildu grýta þig, sem brautst þá á bak aptur med einu ordi, er þeir vildu grípa þig: hvad létt var þér ad stíga ofan af krossinum? Þú varst annad ad starfa, Drottinn minn! heldur

enn ad leika fyrir spéfuglum þessum, sem þér mundi þó ecki trúad hafa; svo mørg teikn og stór=merki hafdir þú gjørt hjá heim forgéfins. Þú gast látid ræníngjann stíga ofan af krossinum, sem leid fyrir syndir sínar, auk heldur hjálpad sjálfum þér; en þad var kraptaverkid miklu meira, miklu meira miskunarverk, ad þú gafst hønum og øllum sann=ydrandi stórsyndurum Paradís og eylífa vist med þér í ríki himnanna. Þér sé lof, prís og æra, ad eylífu, amen!

Þetta gjørdi nú almúginn, sem framhjá géck. Høfdíngjarnir, hinir yppurstu kénnimenn, Pha=ríseí, øldúngarnir og skriftlærdir, héldu einn hóp, og spottudu hann sín ámilli, segir textinn. Hér kémur mér í hug þad, sem Jeremías skrif=ar í sinnar Málabókar 5 kap.: Eg sagda: þessir hinir umkomulausu breyta fávísliga, þeir þeckja ecki veg Drottins, né réttindin Guds síns; eg vil fara til høfdíngjanna, og tala til þeirra, því þeir kunna veg Drottins og réttindi Guds síns; en þeir høfdu allteins okid í sundurbrotid og bøndin slitid. Hér vill þad nú eins heita og á Jeremíe døgum. Þad er ecki trúligt, ad almúginn mundi hafa heimt Jesúm undir líflát, nema ad høfdíng=jarnir hefdu eggjad þá, þvíad allt fólkid hné ad hønum, og lengi vogudu þeir ecki ad leggja hendur á hann þeirra vegna; en er þeir einusinni høfdu flekad þá til ad bíta høfudid af skømminni, þá géck sá skynlausi múgurinn áfram í sømu blindni

allt til þeirrar óhæfu, ad þeir spjádu Drottinn og løstudu, hánganda á krossinum, fyrir þeirra og allrar veraldarinnar syndir. Og er héraf audsært, hvílík drepsótt þad er í einu landi, nær órádvandir menn í vøldum sitja, þeir ed hvørki óttast Gud né mennina, svosem Kristur segir eptir hinum rángláta dómara hjá Lúkam. Adrar landplágur svipta mønnunum í burtu, og svo er þad úti med þá; en rángletid, þad lætur bædi vonda og góda fyrirfarast lifandi: vonda ad sønnu, áf því þad elur med þeim strákskapinn, og hegnir ei vondra verka allt þartil þeir koma undir hinn stóra allsherjar dóm, hvar úrskurdurinn mun verda þessi: Víkid frá mér allir þér, ed rángletid ætid! en góda søkum þess, ad þeir jafnan eru ofríki hinna og ásælni undirorpnir; svo þad framkémur, sem Drottinn klagar yfir hjá Esajam, kap. 59: Sannleikurinn er íburtu vikinn, og hann, er sneydir hjá illu, hann gjørir þad, ad hann verdur skynlaus haldinn. Já, í einu ordi ad segja: þvílíkar pøddur eru nockurskonar átumein landa og lýda, eitt net í Mispa, og ein tálsnara á Tabor, og svosem Drottinn um Babýlon talar: einn meistari til ad fordjarfa.

Hvad segja nú þessir vísu menn? Adra hefir hann frelsad, sjálfann sig getur hann ecki frelsad. Þessi smánarord fara ei lángt frá almúgans, svo ad hvorutveggja mættu sýnast í einu móti steypt ad vera, nema ad þeirra voru þess verri, sem þeir áttu

ad heita menninnir meiri, þar þeir bríxla hønum um sín guddómlig miskunarverk. Þetta eru þackir þær, minn Herra! er þitt eigid fólk galdt þér, fyrir þad, ad þú rakst út djøfla, hreinsadir líkþráa, uppvaktir dauda, læknadir blinda, reistir halta á fætur, og létst mállausa tala.

Ef hann er Kristur, sá Israels kóngur, stígi hann ofan af krossinum, svo vér sjáum þad og trúum hønum! Þér vitfyrríngar! var ecki því um Christum spád, ad hann skyldi þessi kraptaverk gjøra, er strax voru upptalin? medkénnid þér ei hér, ad hann hafi þau gjørt? en nær var því spád, ad hann skyldi stíga ofan af krossinum? Því var um hann spád, ad hans álit skyldi vidurstyggiligra verda, enn annarra manna, ad hann skyldi madki, og ecki manni, líkur verda; þad var í eyrorminum fyrirmyndad, sem Móses upphóf, ad hann skyldi og á tréd upphafinn verda; allt þetta sáud þér nú fyrir augum ydrum. Mundud þér heldur trúad hafa, þótt hann hefdi stígid ofan af krossinum, þar þér trúdud ecki øllu þessu, og ecki miklu heldur sagt hafa, ad fyrir Belzebub djøflahøfdíngja væri hann ofanstíginn? Spámenninnir gjørdu kraptaverk, þó aflífudu fedur ydrir þá; enginn af þeim gjørdi þó slík kraptaverk sem Jesús gjørdi, þó trúdud þér hønum ecki. Þér hræsnarar! sem uppbyggdud leidi spámannanna og søgdud: Hefdum vér lifad á døgum fedra vorra, þá vildum vér ei hafa verid lagsmenn þeirra í

drápi spámannanna; en Hertoga lífsins skømmudust þér ydar ecki af døgum ad ráda.

Sjálfum sér gétur hann ecki hjálpad, søgdu þeir, nær hann yfirgéfinn og hjálparlaus gjørdi alla verøld hólpna. Já, Herra! víst gatstu hjálpad sjálfum þér! Hvør byrgdi sólina? hvør klauf bjørgin? hvør skók jørdina? hvør reif fortjald musterisins í sundur og upplauk grøfum framlidinna, nema þú, frumburdur hinna daudu? Ad vísu gatstu hjálpad sjálfum þér, Herra! þegar þú tókst sjálfur aptur sálu þína, er þú hafdir sjálfur frá þér látid, og reist sjálfur upp ad luktri grøfinni, og steininum ófaveltum. En þér vissud ecki þetta, þéhøfudprestar og øldúngar! Eg læt þad satt verar því þad vildi Brunnur miskunarinnar ydur til afbótunar duga láta hjá Fødurnum, þá þér kvøldud hann, ad þér vissud ei hvad þér gjørdud. En sjálfskøpud voru víti þessi; vissu þeir hann hafdi uppvakid Lazarum skømmu ádur enn þetta skédi. Þér, sem alla ritníngarinnar bókstafi talid høfdud! lásud þér aldrei hjá Davíd, ad Drottinn sé alleina sá, ed frá daudanum frelsar? máttud þér þá ecki vita, ad þessi Guds Sonur væri, edur ad vísu Guds kraptur í hønum; edur, nær vissud þér Belzebub reisa nockurn frá daudum? því héldud þér þá rádstefnu um Krist, hvørnig þér mættud hann af døgum ráda, er hafdi Lazarum uppvakid? Þér vissud þad ecki! segi eg. Því søgdud þér þá vid Pílatum, ad hann hefdi gjørt rád fyrir, ad

ríſa upp eptir þrjá daga? Mátti ydur ecki til hug- ar koma, ad hann, ſem med einu ordi reiſti hina daudu á fætur, hann mundi og Gud kunna upp aptur ad vekja, ef hann ei ſjálfur gat? Viſsud þér þad ecki? ſegi eg enn nú. En þegar þér viſsud hann uppriſinn var, því keyptud þér af ſtrídsmønnunum ad ljúga þad, ad læriſveinarnir hefdu ſtolid hans líkama? Því gjørdud þér ſendifør til allra ydar ſafnada í auſturálfunni, ſkømmu eptir hans himna- før, til ad ſtyrkja lýgi þeſsa? Og hvør mundi ydur trúa, nema ydar eigid nodrukyn, ſem raun gaf vitni eptirá, þegar Guds ríki var frá ydur tek- id, og heidíngjum géfid? Þad var líkligt ad vard- menninnir mundi allir ſofid hafa! þad var ecki heiminum kunnugt, hvad þad galt, ad ſofa á vakt- inni hjá Rómverjum! Þad var ecki ótrúligt, ad læriſveinarnir, ſem forlétu Drottinn allir, þá hann gripinn var, ad Petur, ſem ecki ſtódſt ad horfa á eina óbreytta ambátt, ad hann og þeir mundu voga ſér í hendur vopnadra manna, edur mundu þeir hafa tóm til ad leyſa líkbøndin, og færa Drottinn úr líkblæunni, ſem eptir lá í grøfinni! Þúngur hefir og ſá ſvefninn verid, ad enginn af ſtrídsmønnunum ſkyldi vakna, nær ſteinninn var af- veltur, hvør ed þó var nærſta mikill. Og er þeſsi hinn ſkélfiligi og þó réttvíſi dómur Guds yfir van- trúnni, og þeim er Páls kallar: af ſjálfum ſér for- dæmda, um hvørja Stephanus ſagdi undir þad

hann lét líf sitt fyrir þenna sannleika, að þeir mótstæðu jafnan heilögum Anda.

Hvað segja nú þessir vísu og lærðu menn framvegis? Hann hefir treyst Guði, hann frelsi hann nú, ef hann hefir þóknan á hönum, því hann hefir sagt: eg em Guðs Son. Hvörsu vel hefir Djöfullinn lagt þeim hér í munn spádóm Davíðs um Krist, er hann segir, Psálm. 22: Hann hefir varpað sér til Drottins, hann frelsi hann, hjálpi hann hönum, ef hann hefir þóknan á hönum! Munu ecki vitríngar þessir hafa öll Davíðs orð gullvæg haldið, og að vísu þeckt, að hann talar þetta í orðastað guðlausra manna? og þó brúka þeir sjálfir þau við hann, sem þeir ecki kunnu að straffa um nockra synd. Hafði ecki Guð þóknan á Esaja? og þó söguðu feður þeirra hann í sundur með trésög; eður á Sackaría, syni Barackíe, hvörn þeir drápu ámilli musteris og altaris? því mundi og ecki Guð kunna að hafa þóknan á Jesú, þótt hann gæfi hann í syndugra hendur? Og var nú þetta rétt að mana hinn sterka Guð til hefndar yfir sér, vegna Sonar síns, vegna hans, í hvörjum hann hafði alla velþóknan sína; og þó matti hinn guðdómligi kærleiki meir þína velferð, syndugur maður! heldurenn blóð þeirra, er kvöldu hans eingétinn Son. Lát þetta drepa í þér heiptræknimnar anda, þegar illir menn offækja þig, jafnvel fyrir þá hluti, er þú hyggst þeim til góða að gjöra, nær þeir hafa orð hins vísa í munni, eins-

og Gydíngar høfdu Davíds, segjandi: hann lætst hafa vitsku Drottins, og kallar sig Guds barn; ef hann er sannarligt Guds barn, þá frelsar hann hann úr høndum sinna mótstødumanna. Sértu nú Guds barn, þá er þad stór æra, ad þú mátt slíkt þola med þínum Frelsara; illmæli þessi og brixli fyrir sakleysi edur gódar gjørdir, þau eru meira hrós í Guds eyrum, enn þótt øll verøldin í einu hljódi lofadi þig fyrir gódverk þín, því hans dómar eru ecki einsog mannanna dómar. Og í sannleika: þad er ómøguligt ad hann trúi því, ad Guds Sonur hafi svo mikid lidid fyrir sig, sem sagt er; sem engann órétt edur vanþøck lída vill fyrir réttlætisins sakir, því hann metur Gud eptir smámunum sínum, og hans hugarfar eptir sínu skapi.

Þeir spottudu þig, Herra! í þínghúsinu, féllu á kné, lutu þér og søgdu: Heill vertu, Konúngur Gydínga! Þeir ítreka þetta hér aptur, og segja: Ef þú ert Konúngur Gydínga, þá hjálpa sjálfum þér! Þetta gjørdu hinir heidnu strídsmenn; þeir blindu vesælíngar! þeir vissu ecki af ødru enn konúngsnafninu ad segja; en mundi þad banna heidíngjanum fyrstum allra þeirra, er þar stódu, ad játa samstundis ad þú Guds Sonur værir. Minn Herra! mun þad standa oss fyrir því, ad þú sért heidíngjanna og þeirra barna Konúngur, svovelsem Abrahams sona? mun þad varna þér ad vera Konúngur ad eylífu yfir Guds heilaga fjalli? Fyrst

nú ad Gud hefir géfid þér heidnar þjódir til arfleifdar, þá viljum vér segja, vér, sem hér liggjum á fótskør veraldarinnar: Heill vertu, Konúngur heidíngja! blessadur sé sá, sem kémur í nafni Drottins! Og fyrst þú hefir hjálpad sjálfum þér, og ad uppleystum daudans fjøtrum ert setstur til Kraptarins hægri handar, þá hjálpa oss ogsvo, Drottinn minn! Þótt þú sért af heidíngjum á krossinn hafinn, þá minnst þó orda þinna, og drag alla til þín, þú blessada Lamb Guds! svo þar verdi eitt saudahús og einn hirdir. Vér viljum og, sem í fjarska erum, vér viljum hlaupa med þeim tíu mønnum af hvørri þjód, er Zackarías umspáir, og þrífa í klædafald Gydíngsins; í þinn klædafald viljum vér þrífa, minn Herra! ecki þann er heidíngjarnir skiptu med sér, heldur þann, er þú skrýddur ert á hægra veg Gudi Fødur, sem er: vort hold, og segja enn-nú: Heill vertu, Konúngur heidíngja! Hósíanna Syni Davíds! Blessadur sé sá, sem kémur í nafni Drottins! Hósíanna í hæstum hædum! Þér, med Fødur og heiløgum Anda sé veldi og kraptur, speki, máttur og dýrd, ad eylífu! amen!

---

# Til Lesarans!

Þegar vér fyrir nokkrum árum útgáfum Mag. Jóns Þorkelssonar Vídalíns Húspostillu, hösdum vér ásett oss ad láta hvorutveggju Föstuprédikanir hans þaráeptir fylgja, bædi þessvegna, ad þær voru þess jafnverdar og Postillan ad vera í allra kristiligra lesenda höndum medal landa vorra, og hins líka, ad þær gjördust ei lengur audfengnar, því mjög er lángt sídan þær voru seinast útgéfnar, en þeirra eigi ad vænta frá innlendri prentsmidju. Þó hefir þetta dregist fyrir oss híngadtil, og mundi lengur dregist hafa, nema margir landa okkar hefdu ítrekad ósk sína um útgáfu bókanna. Nú koma þær loksins gudhræddum lesendum til handa, einsog Postillan ádur, óbrjáladar ad ordatiltæki og setníngum, en eigi sídur vandadar ad útgáfu enn hún; er hvorutveggi bókin prentud eptir útgáfum þeirra á Hólum 1753, sem vera munu hinar beztu. Þess skal getid, ad vér eigi höfum látid hér prenta ena sjöundu föstuprédikun, bædi af því hún var eigi af sama höfundi, sem hinar, því og einneigin, ad hinn meiri húslestur mun óvída tídkadur þann dag, sem hún er tilgjörd, en ad sjálfur höfundurinn hafi eigi tilætlad, ad prédikanirnar skyldu vera fleiri enn sex, þykir mega ráda af byrjun sjöttu prédikanarinnar.

Gud veri med ydur öllum!

Á Skírdag 1832.

Utgéfendurnir.

